# Rimur

af

# Andra Jalli,

ortar af Skáldunum

Sira Hannesi Bjarnasyni

og

bónda Gísla Konrádssyni.

Utgéfnar eptir handarriti ens sídarnefnda.

---

Seljast innheftar 64 ß. reidu Silfurs.

---

Videyar Klaustri, 1834.

Prentadar á kostnad *Studiosi* P. Jónssonar,

af Bókþryckjara Helga Helgasyni.

# Fyrsta Ríma.

## Hálfdýrt Stikluvik.

1. Endurbæta Andra ljód, einhvør, fornu hlýtur, ef þan gæti ordid gód, svo af þeim kætast mætti þjód.

2. Vill samt eingin verda hér, verkid þetta gjøra, þartil feinginn eg því er; en þad geingur skrikkjótt mér.

3. Ungur hann sem ecki kvad, ádur nockra bogu, gamall kann ei þeinkja' um þad, þá margt annad snasar ad.

4. J æsku hvarfi mas er mér,' mærdar byrja smídi; þad mér starfid ótamt er, eingan þarfa heldur ber.

5. Vid samt leita verd eg, þó, vanti' segl og reida, Austra fleyta ára kló, jút á reita Bodnar sjó.

6. Hamíngjan ráda holl því má, hvørnin mér þad geingur, meins því grádid margt vill slá, minn Nírádins knørinn á.

(1*)

7. Fjørs er kaldur muni minn, mærdar størkin vidur, fimtugs-aldur á kominn, eymd margfaldri sívafinn.

8. Ætti kveda þó um þjód, þá til sagan nefnir, snilli medur lýsing ljód, svo lifni géd en hitni blód.

9. Illa kjørinn er eg því, Andra — kveda — Rímur, dofnad fjørid er mér í, ama — gjørist sjaldan — frí.

10. En, fyrst mig keyrir slóuskan stinn, fram í stefja smídi, og móins leira mørkin svinn, minn vill heyra þvættíngiun.

11. Bezt er þá ad hækka hljód, hvørnig sem þad geingur, ný svo fái nistis slód, núna frá mér Andra ljód.

12. Hlýd þú, gésni gudvefjar, gladlynd bøgum mínum; mitt svo stefni Frosta far, fram ad efni Søgunnar.

---

13. Góins býngja gnægt var léd, gram sem nefndist Logi; Hálendíngum ráda réd, rausn hefdíngja stórri med.

14. Þegar úngur þengill var, þótti hreysti madur, høggva þúngur, harla snar, hátt þá súngu bæsingar.

15. Fleins á ſtordi fullreſkur, fyrr þó ſtóli væri, nú var ordinn aldradur; og ei ſem fordum hugdjarfur.

16. Lánga tíd med ſóma ſid, ſínu ſtýrdi ríki, ekkért ſtrídid adra vid, átti lýdi ríkmennid.

17. Siódur vinum budlúng ſnar, býtti mundar ſennum, en ſtrídur hinum vondu var, víſt ólinur til hefndar.

18 Gildur randa gautur ſá, góda drottníng átti, af Bjarmalandi gulls réd gná, grams ríkſandi dóttur fá.

19. Ragna kellud dýr var drós, dygda ſenſud gnóttum, fékk af ellum heldum hrós, hýrlynd þellin birtu ſjós.

20. En hverſu metin vel ſem var, víſis bedjan frída, um hana getur ekki par, opt.r ſetur fegunnar.

21. Attu hjónin arfa þann, eld ſem Helga nefnir; á því fróni einginn fann, Urnis bona ver ſlíkan.

22. Sýdur þekka ſér af ſá, ſjóla fridi kundur, lidadiſt hrokkid hefdi frá, hár í lokkum mjadmir á.

23. Fallega var á fót kominn, furdu ſnar og ſterkur, ei nam ſpara erleik ſinn, ellum þar med gódvikinn.

24. Brands til þínga sízt var seinn, sverdi slíngur beitti, hátt þar sýngur hjalta teinn, hans jafníngi fanst ei neinn.

25. Undan lúdra geirs vid gnýð, garpi neinum vildi, hjer sá gnúdi hlífar ýí, Helgi Prúdi nefndist því.

26. Sjóla dóttir sjáleg var, Svanhvít nefndist píkan; hún íþróttir beztu bar, blóma' og gnéttir kvenndygdar.

27. Sú var fríðust dróſa drós, dygd og trygdum búin, sann-nefnd vidis ljósa ljós, laudsins prýdi hrós og rós.

28. Aptra naudum rekka réd, ráda dádum búin; gefuin audar or á séd, audgadi snauda gjøfum med.

29. Sinnis mýkja sútir vann, svofnis bríkar nanna; hennar líka hvergi fann, heims um ríkid nockur mann.

30. Þættist heppinn Hildar teins, hlynur sá, þad veit eg, er mætti hreppa adra eins, og ei henni sleppa sér til meins.

31 Þegar kundur konúngs var, kastur fimtán ára, gékk á fundinn gilva snar, geira lundur mál fram bar.

32. Skjoldúng, fá mér skip og lid, skal eg burtu halda, haudri frá med hermanns sid, svo hesja nái branda klid.

33. Sykur naudir armódur, edrum grams hjá ríkjum, þitt er ei haudur þridjúngur, þú ert daudans fátækur.

34. Sízt oss líkar sitja hér, svosem p'kur h'ima; auka ríkid fús eg fer, og sosnis siki næla mér.

35. Þig nær daudans þjáir pín, þad eg heitid streingi: þinn skal audinn eignast sin, og einnig haudrid systir mín.

36. Mektugra ríki' og meiri aud, mér skal hjertun veita, hels í diki hneppa skaud, helzt þad mýkir vora naud.

37. Ef ad spillir audar gná, ættarlægri halur, h'nn skal dillu sína fá, fjeri> stilla gálginn má.

38 Utan eigi' eg leysa líf, líka sjálfviljugur, geira sveigir géfi víf, grimmt ef heyum járna kíf.

39. Helgi glósum hætta fer; hilmir ansa nádi: síla sjós og menn hjá mér, máttu kjósa sjálfur þér.

40. Vel þú súda teistur tals, tólf af flota mínum, Hildar skrúda hríd í vals, og hugarprúda vidi fals.

41. Ríki hyggja þú munt þér, þunds í hreti vinna, og makt sem tyggja mikl-um ber, en meiri þyggja' ei þyrk af mér.

42. Mig þó grunar, mildíng kvad, medur þitt eindæmi, hjers þó dunum herdir ad, heppnast muni vart þér þad.

43. Hrokinn valla hjálpa má, heldum stórt ad vinna. Kappinn snjalli þykkist þá, og þótti kallinn illa spá.

44. Burtu reidur Gramsson gékk, gilva naumast kvaddi, og ad breidum upsa bekk, ørfa meidum safnad fékk.

45. Ljósin báru Hárs hallar, Hildar gildu vinir, hérmed kláru hlífarnar, huldar tárum Freis-niptar.

46. Síls á búdir settu þar, sídan víd-is karfa; Helgi Prúdi hrós sem bar, herinn knúti til ferdar.

47. Beid ei leingi þjódin þá, þyrst í gustinn randa, leystu streingi stordi frá, strax svo geingu skip útá.

48. Upp svo vodir vinda þar, vein-adi og hvein í streingjum; hryssur boda hnarreistar, hefrúngs tróda brautirnar.

49. Geysa ólinu gotar sæs, grædis svædid austur, medur hlyni handar snæs, hrønnin dynur kári blæs.

50. Hádist róma hér og þar, hrundi sundid æda; Helgi sóma hreppti snar, hrós og ljóma þángsvallar.

51. Brjótar sverða géddu geim, glaðir víða kunna; eg ei ferðast fæ með þeim, til fylkis verð að snúa heim.

52. Loga stýður lukkunnar, leing geingið blíða; yndi' og friður faðmast þar, fleins ei klíður leikinn var.

53. Brenna vetur þjóðin greið, báði náðir bezta. En, burt set eg Austra skeið, aðra feta skal hún leið.

54. Nadda þórar nefndu þar, Nóa' túnin austur, jallar fjórir funduft þar' feikna stórir skélmirar.

55. Þeirra faðir Prymur hét, þengill Jotunheima, lýð þeir skaða hjørs við hret, hvor þeim maður undan lét.

56. Hétu Ljótur, Þrándur þar, Þráinn má svo nefna, harðari grjóti hans hver bar, holdið sóti líkast var.

57. Grenjuðu voða hljóð með há, hómuðust ramir bófar, vall þeim froða vitum frá, voru þeir hroðalegir þá.

58. Einginn brandur bíta kann, bræður hræðilega; fjórði Andri vera vann, versti fjandi þótti hann.

59. Rafaflár og úteygður, ekkert hárið bar hann, andlits-blár og bik-svartur, á bákinn, fára munnljótur.

60. Kjaptinn þandi kolsvartan, kampurinn tók á brýngu; einginn brandur bíta kann, berserk Andra hamraman.

61. Aldrei bar hann hjálm né hlíf, (hardur var hann kallinn), med hamfari hjörs vid drif, holda sparar þegi líf.

62. Ossa digur áulinn var, öllum trollum hærri, hann þó vigur vænan bar, vodaligu Skéifingar.

63. Gapti fliuni, glódraudar, glórdi í hvarma týrur; hlýra sinna verstur var, vonzku stinnur dygda spar.

64. Ræntu brædur Rúsíam, ruplódu, brendu, drápu, medur skædir Hildar ham, heljar ædis voktu glam.

65. Vörvar korda safna seim, sveiptir heiptar módi; einginn þordi í austurheim, á benstordi mæta þeim.

66. Andra fylgdi sólsku þjód, full af trolldóms ædi, gaurar tryldir grimm med hljód, gnögudu skyldi vígs á slód.

67. Drótt spilandi drykkju ad, dogg einn fagran situr; hljóds sér Andri hraustur bad, hlynir branda veittu þad.

68. Eg hefi spurt, hann Andri tér: af Hálóga fróni, eitt fagurt ad fljód þar er, flesta kurt og prýdi ber.

69. Svanhvít heitir hrínga ná, hennar kénnist bródir, Helgi heitir hjalta ljá, hrekur sveitir lísi frá.

70. Hennar fadir lofdúng lands, Logi er sagt ad heiti, fyrrum hradur fleins vid dans, en fjörgamladur nú til sanns.

71. Þángad halda fljótt eg fer, freyu spjalda bidja, brands ad hjaldri hugs kjarfer, hlynir skjalda fylgi mér.

72. Lítt ámálga leingi fer, ef Logi frúr mér synjar, hann á gálga heingjum vér, en Helga sálga streingirner.

73. Súda drífid svani á mar, sveitir teitu mínar, skrúda hrífid Hárs gustar, húd upprífid sænornar.

74. Kjaptinn skjælir sérhver sinn, surtur surtalegur, og svo mælir: Andri minn, æ farsælist ferdinn þinn!

75 Hildar klædi þrifu þá, þrjótar hrædilegir, hark og ædi heyra má, hrystist svæðid til og frá.

76. Búa skeidir tóku til, trúi' eg greidir væru, snúa leid ad hnísu hil, hnúa gleidir um þad bil.

77. Settu skeidir sjóinn á, seglin strax uppfesta, kári greidir þægur þá, þeirra leidir hofnum frá.

78. Fólſku lýdir flýta ſér, fram um glamma ſtrindi, grædis hýda gotarner, Sandvík ſídan inn fyrer.

79. Hratt finnandi hafnar mid, hlünnjór bandi tjódra; bidur Andri brynjad lid: brátt á landid gángid þid.

80. Bragnar reiſa búdirnar, brædur ſkædir ſídan, ránar eiſu atadar, ólmir geiſa til hallar.

81. Sat ad drykkju þjódin þýd, þeingli gomlum medur; nú vid hnikkir hallar lýd, þeir horfdu' á gikkji lánga tíd.

82. Andri ſnaraſt ord med greid, innar grams ad bordi, ſegn frambar og ſízt vid beid: ſit þú hari laus frá neyd.

83. Dróttir ſegja, deglíng, þú, dóttur eigir væna, gullhlads ey mér gyptu nú, í grídar þey oss kjær er ſú.

84. Gilvi ſveita ſvarar til, ſendir ſkeyta tryldum: þitt eg heiti heyra vil; hinn fram þeytir mála bil.

85. Allir meina' eg Andra jall, úlfar fleina kénni; þori eg reyna randa ſpjall, og rekka ſkeina blóds um hjall.

86. Holda ſóa heill og ró, hlýrar dýru mínir; úr Túnum Nóa nordan þó, núna dróum hvals á mó.

87. Eggja pín og eldi vér, eyddum Rússía veldi; ríki þínu heldur hér, hríngs ef línu gefur mér.

88. Helga rædu hefi' eg spurt, hann gaf svanna frónid, þann eg hrædist hvergi furt, hann af svædi skal á burt.

89. Þitt má hlína hyggju skrín, af happa kappa mægdum, því ættin mín er meiri en þín, makt og Rínar ljósin fín.

90. Fylgja brædur mínir mér, magnadir ædi trella, duginn hræda þeir úr þér, og þúsund' skjæd' af tryldum her.

91. Láttu svarid laust úr þér, lúinn og ellimódur, Andri hára traustum tjer: tiggi spara raust ei ser.

92. Bónords aldrei bragnar fer, brádari nádu heyra, slíkt má halda heimsku per, hérvid staldra' eg géfa svør.

93. Þriggja nátta frest vil fá, fridi lidid haldi, fyrr en gátt eg gullbeds þá, gési sáttur vald þitt á.

94 Andri strídir um neldrar, undrátt á slíku, þó um sídir því lofar, þrjár hann bídi næturnar.

95. Skjøldúng þjóda skikkast hér, skjótt þá til vor koma, heim oss bjóda í hell med þér, hríngs og tródu festa mér!

96. Utan vilji járna jel, jøfur heldur reyna, og lángi til ad hlióta hel, hjørs í bil af sára hjel.

97. Kært er mér þó heggvist-hlíf, hrotta slætti vidur, mál því er ad láta líf, losdúng þér um yggjar víf.

98. Skal enn dýrum skjalda njót, skikka kostinn þridja: okkar hlýra hvørjum mót, hjørs órían sendu brjót.

99. Gaman mundi oss þykja þad, þreyta slíka vidur, eina stund um eggja blad; Andri skundar svo af stad.

100 Kónginn hót ei kvoddu þar, kaudar hrædilegu, mikid blótad brædrum var, brags hér ljóta smíd endar.

101. Góda nædid greidist mér, glóda módu hildi, ljóda rædum leidast fer, Lódins flædid eydist hér.

---

## Önnur Ríma.

### Hálfdýrt Studlafall.

1. Eykinskjalda, skordu spjalda, gjøldin, þýdri færa þó eg vil, þau ef væri nokkur til.

2. Mig þau vantar, mest þó pantað hafi, lítinn sopa sóns úr hver, en svei þeim dropa hann beinir mér.

3. Mun því þjóðin mér til góða vyrða, mín ófögur mærð þó sé, og meingaðar bögur leirburðe.

4. Allir þeir sem arnar leirinn hnoða, komi híngað hjálp mér ljá, hróðrar þínga málum þá.

5. Veit eg hinir Herjans—vinir—staupa, sitt mér aldrei leggja lið, ljóða skvaldurs smíði við.

6. Kann eg ei bjóða Kjalars flóðið horna, linna tradar bjartri bil, betra en það sem eg hef til.

7. Samt má hætta hróðrar þrætting eigi, eg fyrst bedinn Andra var, upp að kveða Rímurnar.

8. Tjalda má því til eg þá sem hefi, verður á því eingin bót, óðs þó sjáist feilin ljót.

9. Viljan taka verkið laka fyrir, má því sunna marar báls, og móins runna hirðir frjáls.

10. Fyrri tíma falla ríman nádi, sem þeir brædur burt úr hell, brunudu skjædir fram á vell.

11. Tjeld í vada Tirfings blada runnar, en gilvi láda gullskord fann, greindi tjáda sögu hann.

12. Ord sín bædi og Andra rædu greindi; sízt vid stansa seimgrund réd, sikling ansar spaugi med.

13. Hef eg frétt af hrevsti mettum jalli: morgum knárri er madurinn, minn er skárri bidillinn.

14. Oss ad hendum hætta vond er komin, verra stand til veit eg ei, en verda Andra festarmey.

15. Ef þú strídir arfann grídar vidur, daudann bídur þar af þú, þinn og lýdur allur nú.

16. Med járni og eldi eydir veldi þínu, mig hér tekur sídan sá, sæmda hrekur standi frá.

17. Heldur játa hirdir plátu skaltu, orgum mér, en þú og þjód, þurfir hér ad missa blód.

18. Skjótt nú hari, skaltu fara sjálfur, med tíunda mann hédan, móts vid skunda glanna þann,

19. Minni kvedju med hann gledja skalru, sídan heim til hallar bjód, hemudum þeim med allri þjód.

20. Segdu' ef vilji Surtur hylja thru, mig med æru ekta frí, ekki væri' eg móti því.

21. Vissi' eg þad: ad velgáfadur mundi, lystfansadur laufa grér, og líka madur fyrir sér.

22. Þú ei mundir Þórs á sprundi heldur, manndóms hót vid margreyndan, máginn h'jóta vænni en hann.

23 Skyldi án bidar skjóma vidur halda, heim med ydur hallar til, og hitta skridu linna bil.

24. Brúdkaup drekki blídur rekkur sídan, þrettán nátta fresti frá, og fridri hátti gullskord hjá.

25. Fyrri þeigi fleina sveigir megi, brúdkaups vinda efnum ad, umsvif hindra stórleg þad.

26. Fridar—lýdir fái—tíd á medan, þad mun lynda láta sér, lómuriun synda, trúdu mér.

27. Kóngur tjer og kampinn fer ad strjúka: ætlardu þér ad eiga hann, yrpu verinn bolvadan.

28. Fyrr í eldi eld og veldi brenni. Jesur ansa fegur ser, fjardar glansa lind og tjer:

29. Harmi þvínguð heldur springa vil eg, en sálgi kaudinn sveit og þér! síðan naudgi lokfins mér.

30. En, minn því spáir muni þrásamlega, aldrei fá mun Andri mig, ekki má eg villa þig!

31. Degling eina draums í leyni fálda, ser eg segu fœra þér, tryggjan dregu Grana tjer.

32. Jall Héranda hirdar brauda nefna, Elfey rœdur austur frá, ögna skadur hjers í þrá.

33. Hermanuliaur, hár og digur jallinn, gagn-rádslíngur rammefldur, rómu þínfum alvanur.

34. Eyar stjóri á sér fjóra nidja, hernad rœkja þeirra þrír, þaktir lœkja bjertum fýr.

35. Ver Hárekur brœdra þrekid mesta, Hrómundur í Hegna þrá, og Herraudur kann meingi slá.

36. Fjórdi Hegni flestum bregnum stœrri, eldhúss geguin umsýslar, aldrei fegnud mikinn bar.

37. Alfur hneita einginn veit hans krapta, jafnan hljóður hjørva grér, hvorgi þjóða vinsæld ber.

38. Eg því spái, spaungin tjáir veiga: hann eda einginn fríi oss frá, fánta meingi er stridir á.

39. Fram úr hóst Háreks gróvur ofsi, gánga lýðum þykir þó, þjóðum býður aungva ró.

40. Hugadur og hardeflður í rómu, stór og fridur stála ver, steypir lýðum hels í hver.

41. Ern og hrafni eydir drafnar bríma, átu safnad opt gétur, ei sér jafnan neinn metur.

42. Hlýrar gæddir hreysti, klæddir brynjum, unda bylgjur æsandi, ætid fylgja Háreki.

43. Helga ordin hryftir korda spurdi, einnig minni fegurd frá, fékk hann sinnaskipti þá.

44. H.oka fjádur heitid nádi streingja, med bræd.um sínum brims um hlad, bródur mínum leita ad.

45. Hann vid berjast, Hildar merja skrúda, hverugur meira hafi lid, hart í geira kafaldid.

46. Fold Herraudur fest sér andar hefir, hrősið þjóða hlýtur mey, hersis jóð úr Hvítíngsey.

47. Fadir brádur! fundið ráð mitt heyrðu, hér á lúði hef eg Finn, hann er dáða skjótleikinn.

48. Þessi vendi þegn með sendibréfi, hred og skil, það hindrist ei, Háreks til í Hvítíngsey.

49. Honum bjóð þú hafnar glóða nonnu, voldin lands og virða lið, ef vill hann Andra berjast við.

50. Andri má þó ecki fá það vita; harða meina' eg Háreks lund, hann mun reyna' að frelsa sprund.

51. Brædur munu bæfíngs dunum vanir, hér sinn búa hardnestjum, og hýngað snúa ferdunum.

52. Finnurinn þaðan ferdahradur vendi, sund Héranda hradast á, hermi vanda málum frá.

53. Ásorm hlýra hara dýrum segi; minn er grunur: geira þór, gremjast muni lyndisstór.

54. Þar mun Hogni hýrast bregnum medur, ljóst mig grunar losn gulls kvað: leita mun hann brædrum að.

55. Ef situr jallinn seguspjallið við-
ur, og hreifir ei til heiptar sér, horfna
segi' eg giptu mér.

56. Að þó gætur géf þú mæti Finn-
ur, hvað feðgarnir hjalað fá, hreysti-
gjarnir til mín þá.

57. Finnurinn sendi fór sem hendi
veisi, en tolti fjóli tjeldum að, tvinna
sólin rédi það.

58. Að búð kom, þar inni vomar
drukku, handabandi og bugti með, buð-
lúng Andra heilsa réð.

59. Andri tjer og augunum fer að
hvima: blíður í máli brosleitur, ber er
stála sámennur.

60. Mínir allir orku-snjallir braag-
ar, skulu án efa þjóna þér, þú ef géfur
Svanhvít mér.

61. Hilmir lauda hirðir randa svar-
ar: hennar fyrir hend eg fór, hokla
styrjar finna þór.

62. Kvedju bera kæra þér frá henni;
beiddi spjalda brikin mig, berjast ald-
rei viður þig.

63. Að nær tjeldum traustir heldar
geingu, gullbaugs nanna gat þig sjeð,
girnast manninn slíkan réð.

64. Svo leizt á þig selju bráins túna, ad ei vill kjósa annann mann, ástar ljós um svanna brann.

65. Fram þar ordin audar skordu tjádi; Andri gildur gégna ser; gjera skyldugt játum vér.

66. Hverja bæn og hvad sem væn Jómfrúin, af mér hljóta hyggur mæt, henni móti sizt eg læt.

67. I hell hjá ydur hraustu lidi medur, skal eg dvelja þar til þér, þorna selju géfid mér.

68. Festi Andri fofnis sanda nennu; fridur gérdist þá med þeim, þengill ferdast sídan heim

69. Annan dag í ødlíngs fagra hellu, Andri gékk og þjódin þá, þar svo drecka staupa lá.

70. Svanhvít var nú sveitum þar og medur, hýr vid Andra hrínga lín, haus berandi kjapti vín.

71. Ekkert sljódid fegra þjódir sáu, Andra stód vid sikurnar, stygd og módinn duldi þar.

72. Hann vid lindi, lauka yndi festi, þrettón lída nætur ná, nálgast tídin brúdkaups þá.

73 Frá hér snýð eg, Finnurinn því sér hradar, þángs um hyl og Herjans mey, Háreks til í Hvítingsey.

74 Hann þá finnur Hárek svinnan kvedur, honum midaun hilmis fær; hann tók vid og las því nær.

75 Honum brá, og hlýra þá vid talar: Loga sjáid letur hér, lauka ná hann býdur mér.

76. Ef felli' eg Andra fránum brandi medur, fæ eg landid, frúna, lid, sofnis sand og kóngs nafnid.

77. Pad er enn, mig ermum spennir gæfa, þar kóngurinn mér býdur brú, Bjergólfs sennu vænsta nú.

78. Sízt má þrjótur svartur hljóta píku, hana eg skjótar frelsa fer, frá þeim ljóta hvrju ver.

79. Brynju klædumst, bifurs klædi þrífum, Loga sværi siglum ad, sækjum klæda nipt í stad!

80. Andra deydum og hans leidu brædur! hverugur beid þá hlýra vid, her tilreida brands í klid.

81. Hjúpum klædast Hildar, æda sídan, ofan ad grædir, ýttu fram, otrum flædar síls í damm.

82. Segl útþenduſt, ſaung í bendum reida, beittu ſendum bláu frá, birtíngs lendin þá útá.

83. Kári gjóſtar, kólgan ſléſt um ſkeidur, frodar brjóſtum aldan á, ægir þóſtar kaldur þá.

84. Hárek' lidid herda bidur ſtreingi: hvals á midi ſviptum ſízt, ſeglum nidur, þad mér lízt.

85, Aldrei ſlotar ægis gota mædi, unz Háloga hafnir á, hlupu, togum feſtaſt þá.

86. Land á þeiſa, lægis eiſu bjódar, búdir reiſa brádir þar, brædur geiſa til hallar:

87. Þeim med níu þegnar fríu geingu, þeſsir halda heldar tólf, hallar taldir inná gólf.

88. Þar var glaumur, gledi og ſtraum. ur horna; jallinn Andri glatt bar géd, gott hugsandi um brúdkauped.

89. Nú Hárekur hreysti frekur nádi, kvedju vekja kóngi lands, kallinn tekur ordum hans.

90. Hermdi ſídan: heyrdu lýda ſtýr: ir, híngad reid eg hlunna mar, hennar beida Svanhvítar.

91. Séf mér sjóli gargans stóla nonnu, gledi bólin inst mín á, audnu sólin ljómar þá.

92. Svarid vandar sjóli randa njóti: hún er Andra hraustum jád, hljóta standa traust þau rád.

93. Hárek' segir: hirdi' eg eigi parid, um þær festir eda hinn, allra versta skélmirinn.

94. Ætla eg ad audnu tregur bósi, hafi naudgad þar til þér, þilju audar festa sér.

95. Fyrr skal randa rjódum brandur granda, en ad fjandinn slái sá, fái sanda bráins ná.

96. Þá vid rædu reidist skædur Andri, blístrast tekur búkurinn, bikadan skékur stál-hausinn.

97. Herma vann svo: hvor er glanninn þessi, er gabba kann þá seima sól, sem eg ann um hyggju bói?

98. Djarfara sólid finnst ei sólu undir, þér skal borga þetta hjal, þig á morgun drepa skal.

99. Hárek' móti hjørsa brjóti, svarar: hlýri Sóta hamramur, heyrdu ljóti gýgjar bur!

100. Svo skal brand í blódi, Andri, pínu, svartari þegi sá eg hund, þér sómir eigi baugahrund.

101. Það mig dreymir: þig mun teima Skollinn, nedstu sali Rábóls á, nógar kvalir sá munt þá.

102. Þegar lýsir þú mátt rísa á fætur, og koma vídan vellinn á, vid skulum strída baugs um ná.

103. Bæsíng reidum, bragna sneidum sjeri, hari skordar halda skal, og hrínga skordin allt sitt tal.

104. Andri hlær svo hellin nær vid skélfur, vid sína granna sagdi hann: sjáid manninn vitlausan.

105. Einginn þordi á benstordu korda, hrynnir for.um hvetja mig, hels ad bordi lángar þig!

106. Hárek' sídan hilmir blída kvedur, veik úr hell med hlýrum þar, hrós af ellu meingi bar.

107. Tjeldin fundu, fridar stundir þádu, hlý gékk undir hlírnis glód, hrepptu blund um Njørva jód.

108. Svefna grómi sviptir rómu bída, þegar ljómar láð eygló, lundur skjóma hver sig bjó.

109. Hlífar téku, hrotta skóku mund-um, brædur vada búdum frá, bregnum rada nidur þá.

110. Pad menn spjalla: þar ad valla sæi, vígs á hjalli vænni þeim, virda snjalla þar um heim.

111. Mikilhæfa marga gæfan prett-ar, hennar tídum hjálp er veik, hérna lýdi núna sveik.

112. Ei vidbídur Andri, sídan tek-ur, auds hjá hlídi ordlosid, út ad strída Hárek vid.

113. Mjeg blódþyrstir branda kvistir tryltu, vada mistar eingidá, Oma-hryst-ist bedjan þá.

114. Rænu skála reidi bálid steikti, lítid gaman ad þeim er, kallir hamast brædurner.

115. Hlísum þaktir hrystu nakta skjóma, áfram hrekur illskan þá, úr þeim lekur frodan grá.

116. Hnjám að vaða hauðrið svaðalegir, niður raða síðan sér, sagnar vaður slitinn er.

117. Glóða vídis góðlynd hlíðin fríða, ljóða smíði hljóti hér, hróðrar klíðin ljóta þver.

## Þriðja Ríma.

### Ferstikla.

1. Mærðar gróður miðlast fer, máls um rjóður handa þér, hrannar glóða grund sem hér, girnist ljóðin fá af mér.

2. Ofgott virðast ei þér má, eignast stirða kvæða-skrá, grana byrðar — því um þá — þollar hirða lítt að fá.

3. Eg var beðinn Andra ljóð, uppá kveða gamlan móð, nærsta meður hugar hljóð, hér það skéður Týrs um sljóð.

4. Opt við glósur Andra sit, ei þó hrósi skálda vit, marar ljósa mátt það sit, mitt hér kjósa bragar rit.

5. Freyr marglóðar mig sem bað, minst eg bjóða dirfist það, því Berlings góða byr af stað, bjørninn flóða sóns á vað.

6. Mitt um segir Mönduls far; má eg þegi háðúngar, Litars fleyið líta þar, loppum slegið hortittar.

7. Hlýt eg bót að mæla mér, minn þó ljótur bragur er: starfs eg ótal annir ber, ymsan mótgáng sem færer.

8. Óskadagar endader, ellin slagar nærri mér, lúa jagast fjörið fer, flest það bagar heimsæker.

9. Yndis þrotin ára tíð, eymda skotin mörg eg líð, böls ei slotar hardri hríð, happa notin felast blíð.

10. Ymu vindar opt mig slá, ángur minda géðs í krá, bragar hrinda hugsun frá, huganum yndi skjaldan ljá.

11. Traudla náir mindast mér, mærdar skrá sú lystug er; veiga gná sem vizku ber, vorkun má því syna hér.

12. Áfram halda hlýt eg þó, hróðrar skvaldri géðs af tó, þulins gjald er Solner spjó, glöð ef spjalda þyggur nó.

13. Lífgist sanzar, lifni blóð, lyndis skans á verdi móð, medan glansa grædis flóð, af gautum brands eg færi ljóð.

14. Leingur bjóða mannsaung minn, mun ei tróðu þetta sinn; efnið ljóða framar finn, fleins um rjóða hjörsleikinn.

15. Faldist ódur ádur þar, audar slód í dæld þagnar, sem í blódid sár-þyrstar, sáman tródu fylkíngar.

16. Heyrdi lúdra hvellan gný, Hárs nam brúdur titra því, hrottar gnúdust hlífar í, holund spúdi dreyra því.

17. Heyrast mundu skjalda skell, skírt kvad undir dverga hell, skógar drundu, skulfu fjell, Skilvíngs stundi bedjan ell.

18. Fágrahvelid huldi hast, Hildar felid ofsa hvast, hremsan gélur, bryn-jan brast, bregnum helid ad snarast.

19. Spíttist blódid benjum frá, bragn-ar tródu fallinn ná, Hnikars glódin brendi blá, beggja þjódir hjers í þrá.

20. Stála rjódum fargast fró, frek-an vódu dreyra sjó, einn þar stód, sem annar dó, ýmsir tródu helveg kó.

21. Allur fridur eyddur var, einginn bidur lækníngar, hjers á midi helsærd-ar, hnigu nidur kémpurnar.

22. Ýmsir mistu aud og frid, adrir ristir voru á kvid, nokkrir gistu valinn vid, veinudu tvistir blóds um mid.

23. Þa monnum álms vid stir, í stórhjonnum valkéstir, geirs á rennum gégn særdir, gnøtrudu tonnum hálfdaudir.

24. Hlífar spreingjast holdi frá, hnigu dreingir vellinn á, stód svo leingi stála þrá, stíst framgeingu brædur þá.

25. Háreks móti meingi snar, í mækja róti framgeisar, vestra nóti Þrándur þar, þrællinn Ljótur med honum var.

26. Geirs ad verki Þráinn því, þjódir lerkar vals um bý, tólf berserkir fylgdu frí, féla sterkum bers vid gný.

27. Geist fram strídur Andri ód, ótta býdur Háreks þjód, firda snídur, fossar blód, feldi lýd í jetunmód.

28. Æ'ur harinn hjers í klid, hlýra sinar eigi lid, eins og tjaran andlitid, eykst því snarast mannfallid.

29. Einginn verjast Andra má, Auduns merjast klædin grá, í heggji hverju sjo drap sá, sókti Herjan pilta þá.

30. Til jarla mundir bádar bar, beldju kundur drepnugar, vid jarla stundum stál glamrar, stordin undir sár-titrar.

31. Jila skaptan hrysti hans, med hemudum krepti gjarn á raus, fram úr kjapti frodan gans, sólinn gapti sómalaus.

32. Tyrfíng medur til og frá, tryltur vedur jallinn þá, varga sedur ætum á, ædagtredur storkinn ná.

33. Hemudum undan hrekkur lid, hyrju kundur vígs um svid, branda þundum gaf ei grid, grenjadi stundum fólmennid.

34. Gnæpur þrammar, beljar blód, benja dammur huldi lód, hjers vid gjaman því hnígur þjód, Hárek s fram þar merki stód.

35. Hans þar brædur bikśvartir, og bófar skædu svipillir, hart fram æda hamramir, heldar mædast þeim fyrir.

36. Nú Héranda fynir sjá, svona standa' ei búid má, ólmir branda stæltu slja, stundi landid vidur þá.

37. Fyrst Hrómundur fram þá reid, fleins ad þundum rendi skeid, margan fundur snarpur sneid, sverru lundur vid ei beid.

38. Yrpu kunn svo einum þá, erva lundur mætti sá, hraustri mundu brandi brá, Berlíngs tundri leiprar frá.

39 Sneiddi hlífar hvíss íngur, hausinn klýfur sárbeittur, brynju rífur, bik-svartur, bésinn stífur nár fellur.

40. Annan feldi fóla þá, Fjolnis eldi raudum brá, hausinn skéldi herdum frá, hlúnkadist veldi skrokkur á.

41. Vanur brand í blódi þvo, brit-jadi fjanda átta og tvo, meidir randa margan vo, menn deyandi hnigu svo.

42. Neytti handa hetjan greid, hann ei branda þrautum kveid, fram í Andra fylking reid, fól drepandi mørg um leid.

43. Vals um haudur hrædast fer, herinn traudur, því ad er, Nidhøgg blaudur bidur hver, bjarga naudum hels frá sér.

44. Hýar nidur Prestur hét, Práinn bidur, heipt af grét: darra klidar hertú hret, Hrómund vid um mistar flet.

45. Økkur hrekur alla hann, ofsa frekur benkvardann, bitran stékur blódugan, bragna tekur skjótt heljan.

46. Merkid Prestur bófa bar, blóds í restum fram stedjar, heiptar kostum knúdur þar, kasinn løstum forsmánar.

47. Hildar vendi hýdir lid, honum stendur einginn vid, heiptum brendur hatar frid, ad Hrómund rendi þrælmennid.

48. Hardan reidir hjalta nad, Hrómund greidir slagid þad, skjøldinn sneidir bæsings blad, blakkinn deydir eins í stad.

49 Hrómund' knísi hjalta brá, heiptin svífur rekkinn á, hægra stýfir handlegg frá, hinn vill lísi forda þá.

50. Undan lallar Yrpu ver, Andra kalla til svo fer: heyrdu jallinn hraustur mér, hérna fallid merkid er.

51. Fylking þín í fáti stár, firda pínir sára ljár, hlýrinn fíni Háreks klár, hreysti sýnir knár og þrár.

52. Illa fór nú fyrir þér, fleina þór, hann Andri tjer, Hildar óra hrakning ber, hafdu stóra skomm fyrer.

53. Hrómund finna víst eg vil, verd eg inná honum skil, heljar stinn, í bæsíngs bil, ef bída vinnur mín þartil.

54. Ad géti eg fundid garpinn þann, glód vid þundar alvanan; en Hrómundur hvergi rann, hyrju kundar bída vann.

55. Saman vada þessir þá, þúngsinnadir fleins í þrá; Hrómund' nadi hjalta brá, hljóp vid þad í loptid há.

56. Andra slíngur haus í hjó, hrottinn sýngur fagurt þó; hins ei springur kjálka kró, kífmæríngur sizt afdró.

57. Stálid sundur hrekk í haus, hlátur kundi Prýms úr gaus, stód Hrómundur hlífarlaus, hvergi undan flýa kaus.

58. Blóds á leidum bregda vann, brandi reida mannfýlan, sundur sneidir Hrómund hann, heiptar greidur rétt midjan:

59. Hreystilegri hal ei sá, hann þó sigri mætti' ei ná; fram ód digri Prándur þá, þrjóturinn vigri sínum brá.

60 Háreks ſinnur merkismann, mækja vinnu gagntaman, ſundrar linni ſára þann, ſegginn ſtinna eins midjan.

61. Háreks merki hraut nidur, hjers í verki þraut fridur, bóſinn ſlerki braut ridur, branda herkinn ſkaut vidur.

62. Fylking refna fer gjervell, frægdin dofnar lýda ſnjell margur klofnar málms vid gell, meingid ſofnad ſaun Valhöll.

63. Hver um annan hjerva brjót, hníga vann á yggjar ſnót; berſerkjanna megni mót, meingid kann ei ſtandast hót.

64 Háreks lid ſem hrávidid, hrundi nidur vígs á ſvid, ſárs í hvidu ſamheldid, ſamt ei bidur lífs um grid.

65. Hver med edrum falla frí, fleins á jedrum eins og mý, dreyra ledrum ataſt í, unda nedrum bitnir því.

66. Brædur frekir beita geir, branda vekja ſtorma þeir, nárinn þekur lanzins leir, lýdi hrekur, margur deyr.

67. Tjer-Herraudur hlýravid: hogg-vum kauda gjervallt lid, þú munt haud-urs hljóta mid, hlídi audar, kóngs nafnid.

68. Hlýra ſvarid heyra lét, Hárek' þar um Miſtar flet: frægd dýrari fjeri met, fóla ſparad ſízt því gét.

69. Vildi' eg hljóta fríða frú, flestra bót er meina sú, nauða hót ei hræðist nú, hjørs við rót og það veiztú!

70. Það skal fregna frú ósnaud, fleina regna loks úr nauð: hennar vegna skulu skauð, skjóma flegnum hníga dauð.

71. Bræðrum þjóta bófar að, bræðiskjótir vígs um hlað; hinna móti bæsíngs blað, brynjum sóta skært í kvað.

72. Margan sníða manninn þá, merg. um svíður benin flá, ógna stríð var eggja þrá, argir lýðir hopa frá.

73. Andri bítur skygdan skjøld, skálks út-brýtur rødd sig keld: frægri lítur einginn øld, Yggjar slíta sala tjøld.

74 Prándur bróðir máttu minn, meður góða brandinn þinn, við Herrauð rjóða stálin stinn, stýfir þjóðir prakkarinn.

75. Sízt afdraga þarftu þér, þessi óragur stála grér, tyrfíngs jag við tamur er, og tundrið fagurt Oma ber.

76. Saman æða seggir þar, sárheit bræði hjørtun skar; hrumnir gæða hlífar bar, hrannar glæðum flúraðar.

77. Hjer uppreiddi Herrauður, høggið greiddi fálu bur, hjálminn meiddi hvéssingur, og hlífar sneiddi í vøll niður.

78. Fallid búid fóla var, frekt hríng-snúast gjordi þar, gat því nú ei gæda spar, geir til knúid jalls sonar.

79. Sjer Herraudur sverd ei fá, sóma snaudan bitid á, hugarblaudur hvergi sá, hleypur kaudann undir þá.

80. Hjers á midi hóf upp hann, Herraud stýdur opt gæfan, sleingja nidur vomnum vann, vill án bidar drepa hann.

81. Þráinu smeikur þetta sjer, þángad veik og skjótur er, skatna leikinn skakka fer, skjóma feykir brand reider.

82. Hrotta rysti Herrauds kvid, heiptar lista illmennid, hlaut svo gista valinn vid, vopna hrystir eyddur frid.

83 Sverd ei reida mætur má, móins heida njótur sá; á fætur skreidist Þrándur þá, þar sem leidur fallinn lá.

84. Leit Hárekur: hlýri sinn, hníga tekur í valinn, brædifrekur helþrúnginn, blódugan skékur kvernbítinn.

85. Nádi særa margan mann, mjøg títt bærir ormþvarann, einn þó væri ordinu hann, um þad kæra sig ei vann.

86. Vissi lundur vigra snar, verda mundu þá sínar, lífs ei stundir lánggædar, lidsins undir vopnum þar.

87. Feiginn vildi fleina grér, sem flestir trúldu bófarner, falla skyldu fyrir sér, fvar' enn gildur drepinn er.

88. Æsti stríðast odda klið, eggja hríðar tamur við, brynjur lýða, brjóst og kvið, brandi sníður valmennið.

89. Fram í miðja fylkíng rann, frægðin stydja gjørdi hann, hlífar brdja vargur vann, vígs að ýðju frjót margan.

90. Eldíng líkur er að sjá, einginn slíkur finnast má, hreystiríkur hjørs í þrá, um herinn stríkur til og frá.

91. Lima flesun lúdi gand, láu í køstum fallin skand, lands á flesum sniðin snaud, snerladi nesum þjóð há'sdaud.

92. Innir sagan svo þar fra, (sem þó dragast mætti frá) í þrjá daga skalti sjá, stirs óragur kappinn sá.

93. Málma skvaldur herdir hann, hvíldum aldrei sinna vann, eydir skjalda ýtar þann, allir halda vitlausan.

94. Hátt við stundi hetjan móð, hølda sundrar, valkøst hlóð, lanz um grundir laufa rjóð, lúrud undan hopar þjóð.

95. Andri kallar upp og tjer: er það valla gédfeldt mér, að drepi alla ýta hér, ofnis palla frægur grér.

96. Sóma þegi svoddan kann, ad sigrum eigi vér einn mann, ykkur beigir alla hann, af er dregin karlmenskan.

97. Sláum hríng ad hjerva njót, helzt rádslíngir geirs vid rót, kappann þvíngum herdmed hót, hann vor stínga látum spjót.

98. Allir senn med ógna þis, ei þá kénna seinlætis, ad honum renna umhverfis, óma spenna mundum blis.

99. Æsti strídur herinn hróp, herdti og grídarlegast óp; hann um lýda hrínginn hljóp, hrotta snídur margan glóp.

100. Fagurt sýngur sára þjel, sveitir þvínga nádi hel, kífmæríngur vardist vel, vígra þyngist skruggu jel.

101. Ad þá herdir ódum lid, ekki skérdist samheldid, hjörs svo njerdur meins um mid, mátti' ei sverdi koma vid.

102. Minnsta ríngast hans hugur, hrotta þíngum alvanur, yfir hrínginn út stökkur, undra slíngur brynjadur.

103. Leysidan undrast limskn þjód, litla stund hann kyrr nú stód, svitinn hrundi hjörs af rjód, hátt vid stundi, blés af mód.

104. Öldin skæda ord med ljós, um hann rædir svoddan hrós: slíkur fædist suna sjós, freyr ei klæda Hárs á drós.

105. Upp Hárekur hljóða vann, hrottann skékur blóðugan, unda frekur óðum rann, ótta vekur þjóðunr hann.

106. Hermdi lýði hann svo við: harðar' strída megið þið, ykkar bíð eg blóðs um mið, þó brúkið níðíngs við mig sið.

107. Hugarblauður Andri er, eggja nauðum forðar sér, sendir skauðin sækja' að mér, sjálfur kauðinn nær ei fer.

108. Flæðar brennu fagra grund, festir, menn það heyri' um stund, í brjósti kénni' eg baugs um hrund, ef blauðan spenna skal hún hund.

109. Heyrðu ljóti hyrjar ver, hjers að róti flýttu þér, komdu skjótast móti mér, svo meyna hljóti annarhver.

110. Vanadíst Andra vit og mál, vóð grenjandi blóðs um ál, skjeld gnagandi gnísti stál, greipar þandi' um Oma bál.

111. Sprúngu hnikkar frodu frá, fólans miklu tanna gjá, í honum sprikl- ar bræðin blá, blóðugum stiklar skrokk- um á.

112. Undan hrekkur þjóðin þar, þrjóturinn dekkur fram brunar, gaus upp mekknr gufunnar, gaur af blekkum skélf- íngar.

113. Hárek' kéndi hyrju ver, Hárs um kvendi þar hann fer, stein-með hendi hátt reider, hrotta sendi þann mót grér.

114. Enni bellur bjargid á, bófinn fellur argur þá, kaudar hrelling kargir sá, í kjapta skéllur margri gjá.

115. Aldrei falla hann Andri vann, ætíd skalla bar hardan, en nú til vallar hnígur hann, Hárek kalla má feigan.

116. Upp stod hradur Andri hér, ekkert bar hann fyrir sér, hjalta nadinn hátt reider, Hárek ad, og þá sór ver.

117. Ur honum freidir frodan grá, feikna reidur var ad sjá, heggid greidir Hárek þá, og hofudid sneidir bolnum frá.

118. Feldi dreingur frægd og raus, fyrr sem geingi branda kaus, stáls á eingi straumur gaus, hann stód þó leingi hofudlaus.

119. Um lend og sjómn lofadur, láda móins var baldur, sídast þó vid sókn frekur, svona dó hann Hárekur.

120. Misti slíngur frú og sjer, sofnis hýnginn, land og her; en lids hilmingur Andra er, á benþíngi fallin hér.

121. Gaurar víkja brátt ad borg, branda lýkur þannig org, Andra mýkist sinnu sorg, svofnis díkja finnur torg.

122. Lýtir binda sárin sín, svo burt hrinda þúngri pín, gæsan miňdast gleður vín, gumma lyndi og bál úr R'n.

123. Nú vill Andri næsta dag, uňan vanda brúdkaups hag, eptir branda erd-ugt slag, eg vid standa læt þ r brag.

124. Hagkvedlínga læt eg ljód, lag med ríngast kæta fljód, baghendíngar bæti þjód, brag vid slíng svo mæti' ei hnjód.

---

# Fjórda Ríma.

## Aldýr Stafhenda.

1. Esju rindar umgjørdar, elda lind-in bøgurnar, færast þér í fjórda sinn, fátæk er þó málsnildin.

2. Optast geingur illa mér, ósla feing ad vanda þér, þarvid leitast þó hlýt eg, en þad er streita nógu treg.

3. Um lítt hirdir audgrund svinn, ofur-stirda braginn minn, ordaval hér ekki sjest, eins er galin kenníng flest.

4. Hortittanna hjálp eg med, hródur þannian minn svo kved; heimskunnar eg hirdi sløp, hugsa par ei neitt um gøp.

5. Allt það prýðir óðar skrá, öllu síðar sinnist mér hjá, en hvað lýtir eg fæ til, og því býti hrínga bil.

6. Eddulaus og efna sljór, eitthvört raus eg minda fór, svo í bragi setja vann, sízt það lagið hafa kann.

7. Pannig saman lem eg ljóð, lítið gaman bauga slóð, af þeim hefir, ødrum hjá, óðar stefum Gísla frá.

8. Hann er bæði bezta skáld, Bodnar gæða veitir sjáld, fornmælunum fróður í, fæstir munu neita því.

9. Valdi flestu líka løg, sem láta bezt við kvæða sløg, ordheppnastur óð svo kvað, ekki' er að lasta hann um það.

10. Hina bragarhætti við, hlýt eg laga mærðar klið, þó mér ýkja þyki tregt, það er líka mátulegt.

11. Vona eg ljóðin meti min, menja slóð af vizku sín, betur en glansar augum í, ei við stansa kveða því.

12. Hljóti gæða hrínga bil, sem hlustar kvæða minna til; felli' eg niður formálann, fljóð sem bidur eigniſt hann.

13. Brast þar áður mærdin mín, móins láða brikin sín, sem Andri snjéllum ýtum með, í ødlíngs hellu drekka réð.

14. Eptir tjáða eggja hríð, ofnis láða seljan fríð, sitt um standið þeinkti þá, og þókti vandi ferðum á.

15. Eina kallar audar lín, orma vallar brík til sín, Gyda brúður hét sú hýr, henni trúði meyan dýr.

16. Sagði viður fríða frú, sofnis skriðu nanna sá, bú þig snarast blóðs á mið, báðar fara skulum við.

17. Valinn kenuum víðan þar, veitum mennum bjargirnar, í dag Héranda syni fá, séknar standa vollum á.

18. Fleins í geingi frægri heim, finnast eingir munu' um heim, allir dauðir ei þeir sé, erku snauðir mætti ské.

19. Gyda mæla móti fer, munu' oss fæla draugarner, teunum gnísta geispandi, gapa og tísta masandi.

20. Þar er snótum valla vært, voma ljóta ei fáum hræ.t, blóði' umflotin Hárs er hrund, hrotta brotin fara mund.

21. Leit eg hlýra hníga þar, hreysti rira blóðs í mar, allir dauðir eru þeir, ei frá uaudum leysast meir.

22 Dróſin rædir dægilig, draugar hrada þegi mig, ekki komaſt kunna hót, kaldir vomar Blinds á ſnót.

23. Gydu kvaldi hrædſlan herd, hún kó ſpjalda ſylgdi jerd, benja vódu blód=ug dý, bádar tródur valinn í.

24. Fljódin kanna vídan val, var þar manna daudt ótal; Svanhvít leingi krapta kná, kaſtar og ſleingir daudum ná.

25. Þann ſem vildi fljódid fá, finna, ſkyldi byrgdan ſá, Háreks bródur Her=raud þann, hulin blódi litverpan.

26. Ei ſér bjarga orkar par, undir margar kappinn bar, meſtu naudum níſt=iſt því, nærri daudur valnum í.

27. Hann uppreiſa rédi þó, ránar eiſu fegurſt nó, ſilki þrædir ſaman kvid, og ſýndi gæda mjúklyndid.

28. Meſt adhjúkrar hjerſa bjód, hreint af ſtrjúka nádi blód, og þerrar dúkum mýkſtu med, madurinn ſjúkur hreſsaſt réd.

29. Herraud furdar helzt þar á, hann því ſpurdi menja gná: hver ſér rédi hjalpa þar? hún framtjedi ſvo ſem var.

30. Aptur hratt ſvo halur kvad: í huganu datt mér aldrei þad, ad v.fjur ſpánga vogudu ſér, í valinn gánga og hjálpa mér.

31 Þig skal eg græda, hríngs kvað hrund, hrind bú mæðu nú um stund, gét eg raunin géfist sú, góðu launa munir þú.

32. Honum roga herðar á, hrannar loga neunur þá, við ei dve'ja vildu frúr, valnum kveljast með hann úr.

33. Hver var dáða hjálpar fús, hitta náðu lítið hús, hvar inngánga, hvílu bjó, hirðir spánga moturs nó.

34. Þar í lagði hruman hal, hérnæst sagði kvenna-val; nálgast bilja nauða klið, núna skilja hljótum við.

35. Sorgum píníst sinnu heið, sárt eg mína klaga neyð, heita brúður Andra á, ekki' er prúður kallinn sá.

36 Annars kæmi' eg aptur hér, ó! að slæmur hyrju ver, félli daudur fróns á stig, fyrr en naudga spennti mig.

37. Þér skal Gyða þjóna fín, þorna — stýður gyptan — lín; bæði kveður brúðurin, borg að treður harmþrúngin.

38. Dóttir Njorva dekk á brá, derlings herfar niðja frá, ell á flakki øldin var, og tilhlakkar veizlunnar.

39. A skal minnast: Andri nú, eigu-ast linnar vallar brú, víst ótregur vill í stað, veizlu þegar stofna bað.

40. Silvi sveita sízt vogar, svertum neita jalli þar. var svo búid brúckaupid, bezta nú med hesdar sid.

41 Bíru lýdir mundar mjell, meingid prýdir stillis höll: gudvef tjelduð innan er, oturs gjöldin hrósa sér.

42. Lands var sjóla set í stad, svefnis bólum útflúrad, pells med fegrum kríngum vítt, af kólsu fögrum ljóma prýtt.

43. Sætid hærsta hilmir bar, honum næstur Andri var, og svo hirdin útífrá, allir vyrdíng hlutu þá.

44 Horna straumur hresti þjód, herpu glaumur eyddi móð, allra handa yndale, álfum branda þar ad hné.

45. Gullrend hornin glóir á, gerpum ornar kéra lá; einginn slygdi annann þar, eingin hrygd á ferdum var.

46. Sveita prýdir selskapinn: Svanhvít fríða leidd var inn, kvenna skara miklum med, margur stara' á sprundid réd.

47. Med skínandi móins ból, mjeg glansandi hríngs var sól, eins og sunna skini skær, skjóma runnum yndi ljær.

48. Andra gladdist gédid þá, gulls hann kvaddi rjóda gná, kærleiks ordum mýksu med, menja skord því taka réd.

44. Lúðurs gjalla hornin hreinu, hljómar víða bjorgum í; hjerinn skall í skatna beinum, skeinur svída téku því.

45. Hjervi snarast bádir brugdu, benja krepja úr þeim rann, ekki par um annad hugdu, en ad drepa hver annan.

46. Heiptar ædi hverugs dofnar, hoppudu gildir stáls vid rót; hjálmar bædi' og brynjur klofna, beigludust skyldir, stukku spjót.

47. Sá adgángur sýndist meingi, svipadur varga tilþrifum, furdu stráungur stód svo leingi, stanfadi margan á honum.

48. Ædra láin ódum drevrir, oddar jálma hlífum á, unda ljáinn Agnar keyrir, ofan í hjálminn Hernits þá

49. Ægir klýfur allan saman, Agnar stinnur hjó af mód, brynju rífur, brjóst ad framan, brandurinn í vellinn ód.

50. Syndist þó því álma raptur, undra fánga meidsli vann; Hernit þó til Agnars aptur, ættaránga reida kann.

51. Herjans tundur hjálminn klýfur, hausinn bridur gjervallan; brynjadan sundur búkinn rífur, brandurinn nidur voll í rann.

52. Agnar sídan dettur dandur, dreingja hver þad litid fékk, en Hernit strídum níjlist naudum, náfelur af hólmi gékk.

53. Kappinn settist síðan niður, sýndist dauður falla þá, býsna þéttar benja ýður, belsjuðu rauðar vollinn á.

54. Einn flugdreka old nam líta, yfir hafið fljúga vann, mjög sér þrekinn þótti flýta, þar án tafar Hernit fann.

55. Hramm að þandi þessu flikki, þar í smýgur klóin breið, álfi randa upp svo þnikkir, á burt flýgur sína leið.

56. Undrum gégna þetta þótti, þjóð á horfði flugdrekann, honum megn þeim er að ótti, einginn barðist tíma þann.

57. Aukast nálr Oma veður, ýmsa þjáir randa klið; Helgi þá fram hraustur, treður, Hegna má hann glíngra við.

58. Hermannligur heldur var hann, Hlakkar skrúða praktugan, líka vigur bezta bar hann, blossanum úðar forgyltan.

59. Eggja þrautir ei við tefur, æfur Hegni fram brunar, Andra-naut í hendi hefur, hulinn Rögnis flíkum var.

60. Hafnar ró sá hrotta særir, Hildar óra sem að kaus, élmur þó nú orðinn væri, ekki fór hann skyrtulaus.

61. Saman æða finnis bráðir, sárheit bræði hjörtun skar, var sem þræði léki á láðið, líka græðir viðtitrar.

62. Branda hljómur heyrdist vída, hlíf-um skjóminn þá í gnast, stundi Oma skyggjan fríða, frekt vid rómu jelid hvast.

63. Eins og ljónin ólmast nádu, óðu fróu sem laufa mjell; sára prjónum aldrei ádu, undir tónar dverga höll.

64. Jafnt med bádum hendum Helgi, heggva nádi vígur bezt, hjers í grádi Hegna velgir, hann þó brádur væri mest.

65. Undvarg skipti opt í mundum, ýms-um skjeldinn henda vanu, hátt sér typti í loptid stundum: lofadi oldin hreystimann.

66. Hegni stóru heggin veitir, heipt uppbelgir ræna frá; málma þórar meintu teitir, mundi Helgi bana fá.

67. Hvert það sinn er hrystir branda, Hegni stinnur vo med der, sýndist hinn í svoddan vanda, sem þá linna mundi fjer.

68. Af sér heggin slíngur sló hann, slíf-um ellum varnadi; Mistar pleggin Hegna hjó hann, hreint gjervell ad skyrtunni.

69. A hana býtur ekki parid, aldrei ménda slíka frúr; af hemi hrýtur Oma skarid, eagjum sindra gneistar úr.

70. Andranautur ekki heldur, edlíngs sonar Hildar plegg, beit, en hraut úr eggjum eldur, Oms á kvon vid sérhvert högg.

71. Gérduſt módir hlynir hringa, hlíf-
ar ódum brá hver ljá; meinti þjód ad mundu
springa, mækja rjódar þá og þá.

72. Hríd í Regnis hlyn vid spánga,
Helgi slíngur mindar skraf: viltu'ri Hogni,
hvíldir fánga, heldur en springa mædi af.

73. Bodid þádi vopna vidur, vigra
þjádur skruggu í; settuſt bádir sídan nid-
ur, ſjatna nádi mædin því.

74. Frægſta máttu hetja heita, Helgi
þá vid jalls son tjer, heims um áttar alla
reita, eingan sá eg líkan þér.

75. Jeg er ærid meguis minni, máttur
trolla styrkir þig, er mér nær þó, aldrei
vinnir, á ſtrids vellum, kappinn mig.

76. Enn þér býd eg erfda-ládid, aud,
gulls-hylju, brædralag; eydum stridi, efl-
um dádir, aldrei skiljum nótt né dag.

77. Bodum þinum, Hogni hjalar,
bréfa lýdur allur má, en hét eg dýnu brá-
ins bala, bolnum snída haus þinn frá.

78. Þó jafnrædi betur bjódir, bauga
njerdur, ord med hlý, ládid, brædralag og
ſtjódid, líſt mér verdi ekki af því.

79. Hremſu ber þó heims um ſtíga,
hittiſt einginn frægri þér, annarhvor ſkal
okkar hníga, ádur en branda geingi hver.

80. Þúngum fleinum þrávalt fláum, þolum mædi skélfíngar, einga skeinu á ofs fáum, úr sem blæda náir þar.

81. Eggjar medan ekki bíta, Auduns ljósa hlyni þá, vart er sjed hvør sídast ýta, sigri hrósa frægum má.

82. Þér ef ædru ei til bregdur, unda nad í blódi þvo, þín herklædi þá aflegtu, þegar í stad og berstu svo.

83. Helgi úr máta rødd1 reidur, reflum styrjar kasta vann: þú munt láta líf og heidur, ljótan fyrir ofstopann.

84. Fardu skjótt úr skyrtu þinni, skjóminu af sem hrekkur minu, fyrr er drótta slíhrir stinni, stoltur gaf þér fadir þinn.

85. Hlær og segir Høgni rjódur, hradast fletta skyrtu vanu: vissi' eg ei ad varstu fródur, vel um þetta allt saman.

86. Á fætur sídan fóru bádir, fleina hrídin grimdir jók, eggja kvída ekki grádi, undvarg tídum sérhvør skók.

87. Odu saman eins og vargar, ei var gaman ferdum á, bádir hamast, hlíf ei bjargar, hjorfa ramir efldu stjá.

88. Sér ei hirtu seggir hlífa, síndust firtir viti þar; ad nam sirta eggja drífa, ekki hirtu naut sólar.

89. Bert nú hold vid brendum tekur, bísna holdu skeinur þá, dynur fold, en dreyr-inn lekur, dreingjum toldu' ei klædin á.

90. Elfur turdu æda nidur, álfa drundu bygdir mjeg, skélfur hrundin Herjans vidur, hrottafundar reidarsleg.

91. Tennum gnísta, hefudin hrysto, hnjám ad troda Mistar rann; brendum hrísta' í búka, kvista, blódug frodan-leka vann.

92. Mædin tók þeim mjeg ad granda, málma skúra vidur kof; reykjar flóka rokur standa, rekkum úr sem kolagrof.

93. Hrídar æstu vidris vedur, var sem strindi léki á taug; ólmir hvæstu undrum medur, elda sindran vída flaug.

94. Huldist módu hlýrnir allur, haudrid vódu þeir sem snjá; litadist blódi Hristar hjallur, hold á slód í flettum lá.

95. Hverugur annan hvíldar bidur, hrotta spenna mundum fast, hreystimanna málma hvidu, meingid vann ad forundrast.

96. Einginn meiri mækja fundur, mennsk-um heyrist keppum af; flóktu þeir af sárum sundur, samt ei geira feldu skraf.

97. Blódi-ædar megnu míga, mædin þvingun hjartans jók, loksins bædi hnén á húiga, Hnikars þýngja skruggu tók.

98. Unda neðrur samt upp sveigðu, sviptir vana kreptum frá; hver að eðrum hvessing fleigðu, hreint afslvana féllu þá.

99. Hugar-sjúkur Høgna falla, Herrauður sá og þángað fer, silki dúkum sveipar allan, seggiun þá og upp fæger.

100. Helga síðan hirðir dáða, hreinan leggur skjeld uppá; dróttum býður dauða báða, dýra seggi nefna þá.

101. Hrotta rjóðar Helga geingu, Herrauðs undir merkjum þar, fylgði þjóðum frægðar dreingur, fram á grund til rómunnar.

102. Lúðrar gjalla, heyrðist hljómur, herinn allur týjast vann; hér skal falla rímu rómur, rekkar valla nýta hann.

103. Þessi ræðu þvínguð skaka, þjóð ei bjóðast fróðri má; vessin ræðu ríngud taka, rjóða tróðan góðlynd á.

---

## Níunda Ríma.

Samstagað Stuðlafall.

1. Hnikars bikar hýrri tróðu bjóðe, enn eg skal um Oðins, fljóð, ei, þó vyrðist ljóðin góð.

2. Grund eg mundi gullinbanda vanda, ódar ljód um andar land, ef ama bæri stand ei grand.

3. Hrygdin stygdir hjarta sýnir minn, gét því ekki Gínars vín, glóda vandad Rúnar lín.

4. Veröld gérir vekja stygd og hrygdir, dofnar hennar-dygd því lygd, deyfir vída trygd um bygd.

5. Hennar kénni' eg háttalag ófagurt, hún kann mæla í hag í dag, hefir á morgun gagurt jag.

6. Eitrud skeyti øfundar ei sparar, þrútin drambi þar og hvar, þjósti bólgin svar frambar.

7. Mér hún kjeri meln óþýdu tídum, optast nærri ídil-strid, áugurs vakti gridar hríd.

8. Sælir mælast sem í fridi vidur, hennar skilja hridju sid, og hitta lífsins grida mid.

9. Þó lídi eg strídar lífs á skeidi neydir, er mín trú, ad eydist greid, eymda sløg, vid þreidan deyd.

10. Fögrum degi fegins á svo nái, þá sem fyrri þrá nam, sjá, þeim svo vera má eg hjá.

11. Adskilnadar einginn kvídi sídan, þjáir ljóssins þýdan lýd, þar er gledi-tídin blíd.

12. Mædu skædum medan róla í skóla, fyrir bráins bóla sól, brags eg minda óláns gól.

13. Hljóti kæti korda rjódar fródir, og mána sérhver módu slód, min sem heyrir ljód ófród.

14. Málid brjálid mannsaungs sídan lídur, efni søgu hlýdi hlíd, hrínga fogur blíd og þýd.

---

15. Þar nam farast þundar knör í vorum, hraustur sem ad hjorva bor, Hildi vekja gjerir for.

16. Menelás honum móti snár réd fara, hlidskjálfs faguri hara skar, og Hildar skrúda raran bar.

17. Bervar hjorva blóds til markar arka, heyrdist vída hark og slark, haudríd lídur jarka spark.

18. Hljóma tómu hornin vída sídan, hardnar Oma hrídin stríd, hvíldar blóma flýdi tíd.

19. Skéldir ad veldi skjóma hrundu lundar, Oma skélfur undir sprund, ædu skvettist sund á grund.

20. Heima beimar hrakníng feingu leingi, heljar sumir héingu á streing, hinir sardir geingu í keing.

21. Herraudur be: jast haudurs kaun vid granna, brotta skérur hann bitran, hvern ad edrum vann þar mann.

22. Herk ædi bera Helga tjádur nádi, ódum hjerva hádi gráð, hnígur eldlu þjád á láð.

23. Mildíngs gildur megur þó með gröu, Herrauds meingið hjó og sló, brotta verum bjó ei ró.

24. Ad merki heiknu Herrauds var eggbarin, fylkíng gjorvell farin þar, fossum æda mar brúsar.

25. Mærbrín þar einn madur hét, þess gétur, undrum geira hvetur hret, helsjar meingid flet í lét.

26. Framm í þramma fylkíng Herrauds gérir, Hildar vendi herinn ber, hvern þann drap sem er fyrer.

27. J svip víg-pipur sextíu spjóta njóta, kasskur drap með klóta rót, þeir kunnu standast hót ei mót.

28. Hlýra dýra Herjans glód sem rjóda, Sigurd mundar sjóda bjód, og Serla nefuir þjód á slód.

29. Happa kappar Herrauds tjádust bádir, Hálenzkir, en hádu gráð, hjorva títt með dád um láð.

30. Marbrín snarast móti ríða stríðir, bana þar til býður lýð, bens ei spara gríðar hríð.

31. Heggin snøggu hlýrar par ei spara, minsta hræddur Marbrín var, mót Sigurði skar Orms bar.

32. Klýfur fífan kappa snjallan allan, með fák og søðli fall um hjall; feingu, hjørinn gall og small.

33. Hinn vill stinnur hverja frá ef má hann; Marbrín hrotta bláum brá, bol frá hausi þá réð slá.

34. A Herraud gérir hlópa síðan stríður: brands ef vogar bíða í hríð, ber eg skjóma fríðan níð.

35. Innir hinn og álma' fer að veri: hælast ekki hér um ber, hrotta fyrren snerra hver.

36. Baldur skjalda benja seiðinn reiðir, Marbríns gjørvoll greiðast sneið, Gøndlar klæði breið um leið.

37. Haus af losar hesti freyrinn geira, undrum hjørva heyrist þeyr, hrundi jórsins dreyri' á leir.

38. Ur søðli røðuls síkja bjóður móður, hljóp í stað og stóð á lóð, stáls þar að svo rjóði vóð.

39. Heggið sneggast Herrauð þó tilbjó hann, ofan í hjálminn hjó og sló, hvergi bítur gróan þó.

40. Hrökk af lokka laufinn greiðast heiði, í bógum jörinn breiðan sneið, bjerninn þoldi reiðar deyð.

41. Mikla stiklar marnum frá þar lá hann, son Héranda sá eg þá, sára reiða bláan ljá.

42. Hyggur styggur hirðir fleina beinast, heljar skuli skeinu mein, skjótt af mistil-renna-tein.

43. Dauðans nauðir daprar sjer aðbera, Marbrín ef að Herrauðs hér, hrottinn brúna fer á skér.

44. Ur hendi sendi hjörinn njótur spjóta, hrepsti meður hótin skjót, hleypur undir klóta brjót.

45. Í fáng upp strángan fleigir sverða gérði, hefja þar og herðir ferð, hins því orkan verður skérð.

46. Herrauð bera hér sem vann nú þannin, fótunum undan fann sér hann, skjótt var kippt sá manndóm ann.

47. Skjalda baldur skjótt að velli fellur, heyra mátti hvellan skéll, hirðir þegar pella féll.

48. Marbrín svarar Sigtýs frú að knúinn: bregð í tafli búast trú, eg biltist afli rúinn nú.

49. Stríðs í tíð, á storð og unni kunni' eg, bila margan brunnelds gunn, Blints þar lýsti sunna þunn.

50. Vërum morgum vann eg bráðast áður, hef þó aldrei hjárur þáð, hrakníng fyrr með smáða dáð.

51. Ef líf úr kisi lénar mér að bera, meðan æfin þver ei, þér, þjóna skal eg hvar sem fer.

52. Herrandur gérir gégna fljótast móti: hels þér granda hót ei ljót; hratt uppreysti klóta brjót.

53. Sveit þá lítur svaðil, Marbríns-farir, þusti á flótta þar sem var, þjóðir óttinn skar óspar.

54. Menelás sínum móti drótta flétta, sollinn bræði sótti fljótt, sinni bar nú ljótt órótt.

55. Viður niður búðlúngs síðan lýði, Hildar esna hríð í gríð, holund þó að svíði víð.

56. Oð um flóð með unda ljáinn bláan, hoggur þjóð sem hrávið þá, hrinur blóð um dáinn ná.

57. Herraudur sjer, ad helju kannar ranna, herinn sinn, en sannast hann, svella brœdi vann innan.

58. Móti skjótur Meneláfi rásar, hjerva ber á básum nás, blódugan reidir Ása dás.

59. Hinn ei minna hrottann greidast reidir, heiptin sinnu heid í sveid, hjörs ei vinnu neydum kveid.

60. Til Herrauds gérir heggva þá er sá hann, bíta ekki á hann má, (og því happi fáir ná).

61. Herklædin sterku hafdi reynir fleina, hvellt í unda hvein opt tein, hvergi sázt þó skeinan nein.

62. Hlífar rifa Herjans tundur mundi, af hilmis nid, en hrundi á grund, heitt úr benjum unda sun^.

63. Odum blód af budlúngs sýni dynur, stord vid geira stinur hvin, sterk ei kémpan linast hin.

64. Vardist h:rdur vísis þarfur arfi, fjer þó loks og fa.finn hvarf, féll vid geira dj:rfur starf.

65. Séminn rómast sverds úr naud Herraudi, þjóti:a honum haudrid baud, helda vald og raudan aud.

66. Síðan býður segg með fara snarast, fram á mastra marinn þar, meingið særða hvar ed var.

67. Jl haldi baldur hrotta sá hér knái, hafði kappa þá svo þrjá, þróttlaus hver í dái lá.

68. Tjeldin veld hann tók og móins flóa, þjóð og skip, en þó sig bjó, þaðan burt og dró á sjó.

69. Sundur þenduft siglu trefin stefnd, aungvir liðu efug kof, ei var heldur gjef á tef.

70. Líra mýrar ljónin reiða sneiða, ýtum þétti eyðast neyð, úður faðminn breiðir gleið.

71. Boðar froða brims á jórum stóru, æði var með órum sjór, Unnar hruflast bjórinn fór.

72. Líta nýtir lundar móins flóa, Prúðey loks, en þróast ró, þóttu hver um jó sinn bjó.

73. Sal frá hvala síðan þjóðir tróðu, á strönd, þar Alfur stóð á lóð, strauma fagnar glóða bjóð.

74. Bauð Herraudi brátt frá geim með seimi, borgar til og heimum heim, bezt að gleðin streymir þeim.

75. Byrdíng gyrdast, gledur vínið fína, á þeim rodull Rínar skín, randa bjóðum p'na vín.

76. Heilan deilu dofra sáu knáan, hirðir virðar hjá lýð þá, Hernit fyrr sem dáinn lá.

77. Fagna bragnar baldri móðu glóða, þambar horna-þjóðir-flóð; þreytist eg að bjóða ljóð.

78. Konráðssonar koma nú tvær frábærar, Ondrur Gísla, ærin þær, Oddreyrs vofvi nærir skær.

79. Illa féll mér óðar jag að slaga, lýtin flestu bjaga brag, eg bila' að kveða fagurt lag.

80. Elda kéldu eingin grund ef mundi, þakka skakkan þundar sund, þetta rétt mín undrast lynd.

---

# Tíunda Ríma.

Skammhent.

1. Andra rímna vildi voga, vísur rita' á bréf, stokkuls jarðar strøndin loga, stokum hlýðir ef.

2. Á ad kvedast upp ad nýu. Andra bragurinn, sem ad kvad í frædi fríu, forni greppurinn.

3. Ritararnir brøgum brugga, bjagad stundum raus, því er ordin Durnis dugga, dølud reidalaus.

4. Er hans fyrir augum beru, Yggjar deyfda sáld;. en þegi kved í þeirri veru, eg þykist betra skáld.

5. Byrd til góda vildi' eg kjósa, veigsól, bøgurnar; kann eg ekki háum hrósa, hródri forbildar.

6. Gømul skáld þó gedjist eigi, greppum ný med ljód, búast má vid: sama segi, seinni tídar þjód.

7. Margur heyrist hródur spjalla, heppinn ný-gjørvar, en náttúrlegri verdur valla, en vísur Eyvindar.

8. Hans mun eptir líka' ad leita, lángt, sem midur fer; Skáldaspillir skyldi' og heita, skarpur bragar ver.

9. Starkads fagnr Fjalars karfi, fræda lyst búinn. Skallagríms var Egill arfi, ídilbragheppinn.

10. Bragi gamli bragar smidur, bestur fyrr á tíd, ýmsra fornar heyrast kvidur, helzt þúngskildar lýd.

11. Þjóðúlfs géta fornu fræði, fyrr í Hrini var, hann Ynglinga kvað um kvæði, klárn málsnildar.

12. Auðun líka kveða kunni, kallaður Illskjælda. Hornklofi frá mælti munni, mærðir laglega.

13. Firðar Ölvis fræði Hnúfu, finna mörg ei nú; nefnast skálðin niflúngs Lúfu, nærst fyrr talin þrjú.

14. Guttormur Sindri trútt réð teigja, Týs af ølgögnum. Skáldmær Jórun viðris veigar, vandaði konúngum.

15. Glúmur talinn Geira niður, Gráfeld skémti með, Skálaglam í Oðreyrs iðu, unda bergja réð.

16. Ortust kvæðin af Þórarni, er Loftúnga hét. Hagyrðíngur biskup Bjarni, bragi samða lét.

17. Mannsaungs drápu margopt fljóði, mindaði Körmakur. Þórðar Sjáreks sonar ljóði, sæmdist Þórálfur.

18. Hallfreðs kvæðin kunnu sigra, konúngs reiði far. Sighvatur með døglíng Digra, dýrt í metum var.

19. Steinn Herdýsar hefnir leingi, hreifði ljóða dør. Løgsagnarinn Markús meingi, Mønduls stýrði kuør.

20. Stórra meðal skefja-garpa, Stúfur Kattar bur. Kolbrúnar var skilnings skarpa, skáld hann Þormóður.

21. Ottar Svarti fyrri' um fýra, fögur samdi ljóð. Arnór Jallaskáldið skíra, skútu Durnis hlóð.

22. Snidli góma Sneglu-Halli, sneið sér bragar fé. Þráfaldt leysður Þjóðulfs spjalli, þeingill Harðráðe.

23. Brá og fleini bitrum mála, bifurs hertum lög; Þorleifur með heppni hála, Hákon níddi mjög.

24. Björn og Þórður hrings um hlíði, hugar þjáðust pín, Fjalars duggu fermdri níði, fleyttu milli sín.

25. Rafns og Gunnlaugs grimdar hjarta, gérði tapað fjör, fyrir sunnu bauga bjarta, bragar rikktu hjör.

26. Hallar Steinn með lund ólúna, leingi forðum kvað; samt Eylífur son Guðrúnar, saung, en forn-orðað.

27. Þá arfa sinn frá Oláf hníga, orti Hávarður. Gísli Súrsson, Glúmur Víga, og Grettir, skáld var hvur.

28. Vizku flughár Hnikars orri, Hvítaskáldsins var, Lögmenn, stórir Sturli og Snorri, skefja vitríngar.

29. Sæmundur Fródi málma meidum, mærdir dýru bjó, ordsnildar á himni heidum, hans týs: valur sló.

30. Formenn þessir fræda súngu, fird: nm ljód óveik; dreingir fleiri á danska túngu, dønsudu bragar leik.

31. Bid eg hlýdi fólkid fróma, fornu søgunnar, medan mín tístir teistan góma, tóni rímunnar.

---

32. Aldrad fyrr nam kvædi kárna, kémur ríman þar: Alfs og Herrauds jálkar járna, júsu skála mar.

33. Gledin hugar vóx á vegi, veitíng mjadar í; Helga batnar dag frá degi, dável fer á því.

34. Spyr Herraud ad fleina fari, fyrrum Høgna vid; hirdir ansar hrotta snari; hann er skilinn vid.

35. Hreldur ansar hilmir núna, holl med fridar skil: ad hann hefdi eignast frúna, ætladi jeg svo til.

36. Mig hefir sigrad málms á vegi, madurinn hard-esldur, gyptulega gafst þér eigi, gjerdsú Herraudur.

37. Herraudur finnur Hegna síðan, en hans var spurníngin: hrotta fund við herku-stríðan, hver vann sigurinn?

38. Aptur svarar kémpan knáa, kappanum úndireins: þú hefir sundrad brandi bláa, beigir sára-teins.

39. Frægd og ellum sóma sviptum, sendir hels til þú, kappa þann í skjóma skiptum; skilurdu mig nú?

40. Reidur Hegni ansár aptur, illt sé málum þeim; var hans stór í kísi kraptur, kraup eg fyrir beim.

41. Margopt sagdi, mátti eg hlýda, meidir þjassa róms, ad eg skyldi skjóid fríða, fá til egindóms.

42. Ödruvísi líka léztu, Loga fyrir sýn, okkur sætta á hólmi héztu, hverf er dygdin þín.

43. Herraudur sjer af heyp:um glóra, Hegna skarar blis, rétta fregn bar stála stóra, stýfir eldúngis.

44. Nýtur lífs og lima sinna, líka grædður er; eg vil' þenna feiginn finna, fylkir Hegni tjer.

45. Jafnan heppinn jalls son slíngi, játar Hegna spjall; drísur saman þjód á þíngi, þvíad lúdur gall.

46. Hirdin leidir Helga Prúda, Hogna fundu þá, garpar klæddir gyltum skrúda, geingu mótid á.

47. Týgjum þeirra af gulli gljádum, glansadi hvern um stig, heilsar þjódin þessum bádum, þegar og hneigdi sig.

48. Firda saman féllu rædur, fór þá margt í vil, þenna dag þeir bunduſt brædur, bana-dægurs til.

49. Menelaus med Herraudi, meti sættirnar, lystugum seima línum, audi, og lendum skiptu þar.

50. Elin fadmar Helga hýra, hilmis víg-snara, hann skal ríki hálfu stýra, hauðurs Tartara.

51. Rekkurinn hjalar rádabesti, Raudur hlýra vid; Hogni Svanhvít heima festi, hérmed kóngsuafnid.

52. Lofudu allir lundinn seima, lýdir Alfs í hell; jalldóm erfdi í Elfey heima, ofnis medur voll.

53. Stefnu slitu stála runnar, strax af gæddur snill, Herraudur á essid unnar, út sig búa vill.

54. Kvaddi barma sína sídan, svefnis prýddur lá; heldur burt med flota frídan, flidru vellinn á.

55. Snekkjurnar af kára kénnusli, klufu ránar mey, stjórnar medur réttu rennusli; rendu ad Hvítíngsey.

56. Eignar finnur elda voga, eyu samstundis, ástar saman ljós á loga, lompum yndælis.

57. Ad sér fadma rekkinn rédi, reifud skrúda gjørd, sorg-følnadri grótrar gledi, gefin beltisjørd.

58. Audnu tídar í blídvidri, Elfey fær ad sjá; fadir hans var orpinn idri, Odins brúdar þá.

59. Fromud eyar fólkid setur, steigir brandanna; stundad hann med gætni gétur, geymslu landanna.

60. Sagan muna þángad þreyngir, þessum víkja brag: Alfs ad bordum drukku dreingir, darra vanir slag.

61. Sérhvor þjónar Hegna og Helga, hirdar innan þar; rekka vidur rædur fjelga, ræsir Prúdeyar.

62. Hér ad frétti Hegni sjálfur: hold ad Vígrísne, veistu þann í verold, Alfur, vor ad líki sé?

63. Ykkur meinast einginn hnekki, ansar kémpan fríd, munud frægstir þeirra' er þekki, þegna nú á tíd.

64. Aptur spurði veitir vella: veiztu nokkuð til, mér sem væri frægð að fella, fleins í herðum bil?

65. Alfur réði síðan svara: sverða vanan 'stýr, Bölverk vissi', eg vestan hara, verið hafa fyr.

66. Mennum veitti mestar styggðir, meður ránglæti: rænti þjóðir, brendi byggðir, bölvað illmenni.

67. Hrúgaði saman fjárins feiknum, fólinn aldraður; gjörðist verri' í galdurs teiknum, geisi hamramur.

68. Æsur tók að verða verri, viður árin há, skelfilegur heipt í hverri, haug lét smíða þá.

69. Auðs var þángað ekið nægðum, aura níðíngsins, mjúku silki, málmi fægðum, og meiðmum allra kyns.

70. En af sýlfri smeltu' í smiðjum, smíðað þakið var; hásætið í haugi miðjum, hans gullbúið þar.

71. Geymir fólinn gnægðir þínga, gétið er þar sé, á einni festi hundrað hríngar, (hann var meigande).

72. Hauginn beiddi baugum lykja, barnið Mammonsins; húsið innan sló á stikja, slánga bælisins.

73. Hauginn kríngum gard einn garpar, gjördu þarepter, háan, yfir vart svo varpar, vaskur stála grér.

74. Velverkur. hann beiddi géra, bísna sterklegan; hlíd eitt skal á honum vera, hermenn vakti þann.

75. Sextíu landsins vomar verja, virkid, nótt og dag, alla þá med brendum berja, er Velverks skérda hag.

76. Nidur settu kvikan kaudan, konja gézi hjá, allir vita dára daudan, draugur ordinn sá.

77. Alfur sagdist heyrt ei hafa, hrygnir meira frá, þad kvadst ætla verdi' í vafa, ad vinnist kaudi sá.

78. Harar streingdu heitid bádir, heim ad sækja draug; rændum bana bjóst í rádi, og brjóta þennan haug.

79. Lidi stefna fram ad fleyum, fólkid hradar sér; runnu listir ránar meyum, ránga gotarner.

80. Geisa þá um gédbu jardir, gnodir lánga braut, renna létu' ad Horney hardir, hlýrar Andranaut.

81. Skall á alda bordin bædi, brakadi' í reidanum, til Vindeyar síls um svædi, sveima galeydum.

82. Hagar meir í huldar vidri, hróðrar skérdi víst, bragar geir í góma slidri, geyma verdur fyrst.

## Ellefta Ríma.

### Hagkvedlingaháttur.

1. Uppá, galinn, efna hygg, aptur Fjalars sunda vigg, viti halur drós og dygg, daudan tala' eg stáls um ygg.

2. Draugla heiti ríman raung, raddar Geitis hlýdi spaung, bágt mér veitir semja saung, sinnid þreytir mærdin laung.

3. Traudla gét eg treyst á það, mér takist betur en þeim sem kvað, vísna hvetur versum að, vessa letur ráng' skrifað.

4. Mig þó bæri' á blødum hér, brag í færa laganer, að ei færist øllu ver, ekki nærri treysti' eg mér.

5. Mærdir ríngar medan finn, mørgu þvíngast hugurinn; Hagkvedlíngaháttinn sinn, hróðrar sýngur andi minn.

6. Í Vindey halda vestur
fer, veltir alda fegrum knor, beigdi kalda
vana ver, vætir falda storms med fjer.
7. Skip um drífur drefnin há, dreingi
svífur kodrid á, sér ei hlífa firdar fá, feikn-
um vísa ránar blá.
8. Tungls fyrir stordar styrki glaums,
stundu skordu sílar taums, tepudu ordu sýr-
ar saums, saud á bordum ledur straums.
9. Heldum hækkar bana bod, blídu
fækkar vedra stod, Hegni lækka vill ei vod,
Þó vindur stækki og fylli gnod.
10. Stýra dreingir trekanum enn, baf-
adi meingi galdurenn, skipin teingja saman
senn, sveigdi reingur vindurenn.
11. Galdra hrídin grimm var þá, grand
um vídir ekki sá, streingjum lýdur lagte á,
lemdust sídan til og frá.
12. Seglum ekki svipta þó, saman
rekkar mars á jó; vedur hrekkja hækkar
sjó, heldum þekka felur ró.
13. Landid sídan leit af unn, laungu
strídi þjódin kunn; sveipadi lýdur seglin
þunn, saman á feidum mastra hlunn.
14. Landid Bjarma lýdir sjá, létu
farm af skipum þá; strákar armir strend-
um á, stóku varmir hornin þjá.

15. Öld má sverja, að ekki laug, Alfur hverja um búníngs taug; béfar verja harðir haug, hugðu berjast fyrir draug.

16. Sextíu vóru þrjótar þar, þessir fóru til varnar; Högna stóru brátt að bar, brauða þórum með skipar.

17. Högni veður líkt sem ljón, laungum seður varg um frón, undan réðu Herjans hjón, hrekkva téðum víga þjón.

18. Báðar hendur blóðgar enn, bitu rendur skefnúngs tenn, kaudum sendist kvalníngen, klauf að endilaungu menn.

19. Blóð um haudur flæddi frí, fólar dauða mæddust því, sleppið rauða bræddi bý, benjum sauð ógræddum í.

20. Berserk nefnum Bola, var, blótaður efnir styrjaldar, kaudar stefna þrjóti þar, þeirrar hefna meingjörðar.

21. Högna móti vaða vann, vomurinn ljóti heiptum brann; hinn með klóti kvistar hann, kvíða mót á sverðið rann.

22. Iðurin hrundu úr Bola búk, bófanum undin varð ei mjúk; dó að stundu þors við sjúk, dólgnum undir liððan fjúk.

23. Hræddir Bjarmar flýðu frá, fólsans harma banaspjá, að þeim þjarma mikið má, meingið barma, og elti þá.

24 Helgi bardist, hjørinn kvad, hann ad gardi virkis trad; grjót ei spardist ýtum ad, Urnis mardi jarka stad.

25. Vída senn um virkid sá, vaskir menn þad allir sjá, vopnum kénnist ellum á, uppá rennur gardinn há.

26. Lauk upp hlidi Helgi þá, Høgni og lidid þetta sá, inn án bidar allir gá, aungvum fridi Bjarmar ná.

27. Bragnar sáu Bølverks haug, bísna háan, jotna spaug, finna má og fúlan draug, flestum brá vid undur þaug.

28. Nordmenn rjúfa hauginn há, høggva kljúfa saga slá, gátu skrúfad gat hann á, gørpum ljúfast var þad sjá.

29. Høgni greinir: hvert vill lid, hreysti reyna drauginn vid? haugs í leyni ad hermanns sid; hrínga' og steina taki þid.

30. Helgi ansar Høgna nú: hølda stansar flesta' ad snú, draugs í skansa dimmleitt bú, djarfleikans mátt neyta þú.

31. Høgni nidur hlaupa vann, hreysti sid med fráleitan, festi vidur hélt þó hann, haugs um idur líta kann.

32. Myrkt í tédu húsi haugs, hann fékk sjed af ljóma baugs, urnis medur ógnum spaugs, annad nedar býli draugs.

33. Ofan gétur ge'ngid snar, og gripid fleti draugs úr þar, tólf ormseturs byrdir bar, bornar lét þær til festar.

34. Fékk þar eina festi sjeð.—fríkir sveinar drógu upp féð—hundrad greinist hríngum med, hana seinast grípa réð.

35. Stól marglitan standa sjer, strjálad gliti hvolfid ber, sylfri ritad innan er, og í þvitar gullleger.

36. Belverk skérdur blídu' og fé, brynjadur gérdum stól klæddе, var á njerdi hauga hlé, hafdi sverdid lagt um kné.

37 Bófinn sig ei bærdi par, branda rig ad hefja þar; blár-og digur dólgur var, daudansligu skélfingar.

38. Tvo sjer bauga Belverk' á, bádir drang vid hálsinn þá; hnossin þaug vill Hegni sjá, héngu taugum silkis ó.

39. Mikinn svíra men var um, mundar dýru' af sólunum, glóadi fýr af gullleg, um, gjert af skíru meistlurum.

40. Hogni réd til hans ad snú, hann svo kvedur máls um bú, linna bed hefir látid nú, liddan med og feig ert þú.

41. Fádu bædi fals og frott, fólinn skædur en aldrei gott, berdu skrædan vonzku vott, vertu af gædum rekinn brott!

42. Geldrum Þræddur gaurinn er, gamall og mæddur dádlaus hér, smán alklæddur, feigd ad fer, fólinn hræddur, trúdu mér.

43. Menid taka þitt af þér, þræll einstakur líkar mér, og hrínga' er lakur hálsinn ber, heljar baka meingjørder.

44. Samt haugbúinn hirdir ró, heipt frá snúinn gérs um tó, herzlu knúinn Høgni dró, hríngana nú af svardar mó.

45. Ut þau lætur ord vid draug: uppá fætur stattu' í haug, ella mætir elda flaug, ekkert nætur vil eg spaug.

46. Hristist draugur grimmur grár, géfur auga missir fjár, vonzkan flaug ad illum ár, undir hauga titra krár.

47. Menid braut af sjálfum sér, sídan skaut í foldu hér, einginn skraut þad finna fer, fólinn þrautar svóna tér.

48. Er mín farin yndis tíd, en vid hjari neyd og stríd, ádur var: eg herti hríd, holundar ad stæltum lýd.

49. Eg hef því ad orustur, átt sextíu nafnfrægur, og hundrad fríar hólmgaungur, hád, þeim í ósigradur.

50. Einginn madur einn sem þú, eins mér skada veitti hú, meidir þad og minnis bú, mein sárnad er sneipan sú.

51. Fús eg er að finna þig, fofnis skéri stalstu mig! af stólnum fer í stála rig, stedja hér og iglir sig.

52. Mót óblíðum grimbar gram, Ginars hríða fundur svam; ærið stríður heiptar ham, **Hogna** síðan freista nam.

53. Rum í gall af reiðinne, reikar fjall afmindade, benja fall um **Hogna** hné, hauguriun allur gnotrade.

54. Hrísa rédi herku troll, **Hogna** medur klæðin oll, áfram tredur géðs med goll, gólfið vedur eins og mjoll.

55. Fram og aptur hrekur hér, hreysti skaptan stála ver, aukast kraptur orgum fer, illum kjapti beit og mer.

56. Lamdi firtur undir eins, audi myrtur beigir fleins; hlífði skyrtan broti beins; bar-þá stirt að hellu steins.

57. Yfir **halliun Hogni** stokk, hér vard kalli glíman stekk, gólfið fallinn haugs á brekk, hrufluð skall við ásján dokk.

58. Vanstu, hulur, vígra fund, vomurinn talar, hrygg var lund, treysta skal ei grand á grund, gripavali og blíðu stund.

59. Fagri sviptur fofnis lá, feigð í kipptur sigrast má! **Hegni** skipti ei heggum þá, og hofuðið klippti bolnum frá.

60. Ognarlegum hlðu mekk, upplauſt trega veſan blekk; ymſa vega Högni brekk, hrunnir þegar nidur ſekk.

61. Nidur daudur ſidan ſie, ſvartur kaudi ad Niſlheime, ſkéktiſt haudur ſkulfu tré, ſkarkadi' og ſaud í jordunne.

62 Bel verk ſkaptur vorzku var, vunn-inn krapti Högna þar; ſídan raptur ſverda bar, ſaxid apturgaunguunar.

63. Feſti ſnúna fetar á, fyrſtan núna Helga ſá, allir ſnúnir adrir frá, ofnis túna meidar þá.

64. Verdur fundur fagnadar, fyrir lundum ſkjóma þar; ſérhver ſkundar ſídan ſnar, ſeggur ad grundu keilunnar.

65. Heila bragna hittu ſín, herrum fagnar þjódin frín; ſiglu vagn um ſídan gín, ſævar magn, en ferd var brín.

66 Mjeg óſagur fræda dans, falli gag-ur túngu manns, nú frá ſlagar næmi ſkans, nýi bragur haugbúans.

67. Rímu tetur dauſa drín, dugad ei gétur hríngalín, og af metin eingum frín, er laungétin dóttir mín.

# Tólfta Ríma.

## Dýr Frumhenda.

1. Baldurs minni bjódast ser, blandad rauna korgi, í tólfta sinni tródan þer, tæp þó launin borgi.

2. Gísla hætti hródrar mál, hér sem ætti' ei dvína, um hans bætti Odins skál, ódar þætti mína.

3. Mitt þó sladur hneigist hjá, halsins ljóda prýdi, finnst jafnadur eigi á, okkar hródrar smídi.

4. Sónar valla sjáld eg hlýt, sýg því arnar hlaunin; mig þeir kalla skálda skít, skodi þid þarna launin.

5. Lystum rúin ljódin mín, leingi stird þó vari, þeinki' eg nú ad þjódin sín, þau ei vyrdi parid.

6. Meina hreldur mód 'eg finn, mædu sljagadur, æ þess géldur ódur minn, illa því lagadur.

7. Rænu hart þó reyni sút, rétt sem gledi brýtur, fyrri partinn einhvør út, Andra kveda hlýtur.

8. Mærdar streingur mannsaung á, minn ei leingur teigi, seint mér geingur søguna á, sitji meingi' og þegi.

9. Gísli fræða fordum þar, feldi ræðu niður, sem að bræður borða mar, brims á svæði riðu.

10. Vóðu drefn umgéltir grunns, gapti verinn sundur, byr með jeſnum elti unz, við eyuna herinn fundu.

11. Við ei bíta vildu þar, vidra frídir rjóðar, skipin hýða skyldu' á mar, skjótt því lýðum bjóða.

12. Menelás snjall og Marbrín þá, mundar sálla núinn, mjaldurs vallar mar gékk á, manns og allur grúinn.

13. Ægis glansa gefng slóð, grund af lanzins tredur, skrúdi fansað jesurs jóð, jötnum brands fór medur.

14. Streingir saungla, svignar voð, saud á brjóstum alda; dý um þ-ungla dignar gnoð, drifin af gjósti kalda.

15. Andranaut um náhvals mó, nadda gautur stýrði, gylt á skrautið gljáir þó, gumna þrautir rírði.

16. Svuntu hrysti fólgan knó, kári hésta tekur, úður bistist bólgin þá, bárur þjóstug vekur.

17. Stekkuls vega strika fley, straums af sogum hrjáðu, unz Háloga huikars mey, hlynir boga náðu.

18. Vervar randa beigðu' á vog, brims af granda stríða, flein í sandinn fleigðu og, fóru á landið síðan.

19. Mest um ríka sveit má sjá, sunnu díkja ljóma, síls er ríkir reitum frá, runnar víkja sljóma.

20. Fjárðar sunnu fagra guá, fylgði ullum branda, ljósin brunnu lagar á, lilju fullu banda.

21. Gullið fríða gérsemar, og gripi allrahanda, búnir peyði bera þar, brjótar snjallir randa.

22. Kónginn Loga sveitin sjer, sæmd er spennir blíða, fróns um rogast reita fer runna kénnir skíða.

23. Ödlíng kætist er það von, ángrið, lætur hverra, þegar mætur sjer þar son, sinn á stræti vera.

24. Heilsast feðgar fegnuð með, faðmast leingi vinna; hilmir kveðja Högna réð, hans og meingið svinna.

25. Fagnar öllum þengill þar, þrautar heftist voði; greitt að hell svo geingið var, gllva eptir boði.

26. Dillar harpa, dansa fljóð, dreingir ótal sýngja, leikur skarpast lanzins þjóð, lundum móti hrínga.

27. Menelás hjá mildíngs hlið, og Marbrín sæti hlutu, gleðdust kráſir gildar við, góðrar kæti nutu.

28. Hinni síðu sjóla hjá, sátu fríðu sprundin, yndis blíðu sól þar sjá, sagður lýður mundi.

29. Sérhver hrepti sæti þar, sorgar heptist ſlagur; lið í eptirlæti var, láns ei teptist hagur.

30. Bólin drauma bresta móð, bjór ó-naumur gleður, horna straumur hresti þjóð, herpu glaumi meður.

31. Sal um fríðan sogn fram ber, sveitin prýði búin; hjála síðan Hegni fer, hrokanum stríða knúinn.

32. Born jafníngja sveitum sjá, svofnis býng þó eigi, vopns á þíngum vinnast má, vereld kríngum þegi.

33. Marbrín svarar: margur finnst, móins-ſkara njótur, verð ei sparar vargi minnst, vígs til snar og fljótur.

34. Hegni kvað: þá kífs til ber, kylfu' óstaður mína, leiðir vaðar líffins hér, lýðir hraðast tína.

35. Þámín einginn þolir hoga, þegn sem gilda kúndur, bein því spi eingir bol og plogg, bolverks kylfan sundur.

36. Mentum búinn mæla fer, Marbrín ull við. skikkju: hættu nú að hæla þér, hrokafulli gikkur!

37. Heiptin stríð í Hegna brann, hjers við fríða njótinn, svars óblíða sögn því spann, sendir skíða móti:

38. Vogar kaudi móti mér, málma naudir reyna; skal eg dauða skjótan þér, skálkurinn traudi beina.

39. Skemm það heita mikil má, ef meidir skeita digri, mér jafn-teitur þykist þá, þegar beitum vigri.

40. Við þig reyna vil eg mátt, svo vitir beinast raupið; meidir fleina mylj eg smátt, mun þér treinast kaupið.

41. Marbrín svarar: — því ei þver, forið randa gautinn — und. n par ei flýja fer, en fáðu mér Andra-nautinn.

42. Ekki þvingar óttinn mig, odds við þinga vinnur, megn þó stíngi þóttinn þig, þollur hrínga-stiinnur.

43. Klupu síðan hellu frá, Hárs í síðu kjólum, út þar víðan vellinn á, vígs í hríða gjólum.

44. Gilva fundar sjóli sveit, silkihrundum medur, innan stundar réla á reit, þar ríta fundur skédur.

45. Eydast gædi góð við það, glumði svaði þegar, knúðir bræði óðust að, og öskrudu hrædilega.

46. Týrs í ennum troða vell, títt um láðið stukku; gnístu tönnum froðu fell, fram úr báðum hrukku.

47. Stáls við glamrið, grelnir skrá, gamla fjörgin stundi, hverri hamra hvein í gjá, hljómuðu björgin undir.

48. Kylfu meiðir klóta snar, knýr-með breiða steininn; Marbrín greiðast móti þar, Mistil-reiðir-teininn

49. Þá saman bar hin stinnu stál, stord-in dundi viður, líkast var sem bríuni bál, björgin hrundu niður.

50. Jalls þá kundur kylfu brá, klóts að þundi snjalla, var sem mundi mylja þá, Marbrín fundur allan.

51. Hvert við slagið hugðist hel, Högni Marbrín veita; dreingurinn frægi dugði vel, dorvi snar að beita.

52. Dors ei lúðist drífu því, deyfir Lóðins skara, að Helga Prúða hlífum í, hinum góðu var hann.

53. Minnsta ríngast Regnis plögg, rómu þíngum kunnur, sér af slíngur Hegna hegg, hjó orms byngа runnur.

54. Högni firtist, hljómur gall, hjörs vid stýfust undur, á hans skyrtu skjóminn ball, skúfudust hlífar sundur.

55. Eins og vargur var ad sjá, vid honum margan dar, ei þó farga Marbrín má, málma sarg er þróar.

56. Kylsu skædum broddi ber, brands vid þinga undur, af þó mædi odda grér, ætladi' ad springa sundur.

57. Allan daginn eggja stjá, ótta brædi knúdir, sér ei hægja seggir á, sár þó mædin lúdi.

58. Helgi sjer ad Högni' órór, heldur mædast vildi, bauga ver med brögnum fór, og berva klæda skildi.

59. Jalls son mælir: halurinn hér, hetjan rómast svinna; skjóma stælir skal af mér, skíran sóma finna.

60. Honum leingi hrósa má, hans er einginn jafni, laxa eingis ljós skal fá, lífs svo geingi dafni.

61. Félags blídu festu tog, fremdu stríd ei leingur, búnir prýdi beztu' og, borg ad sídan geingu.

62. Sezt ad drykkju þjódin þar, þeingil hallar medur, meingid þykkju mód ei bar, mjödurinn alla gledur.

63. Sér þar undi allvel drótt, úngir sveinar medur; upp var hrundid hallar — fljótt, — hurd, ian glanni vedur.

64. Lýdum hallar þykir þar, þussi' ad kallist slíkur, medur skalla mikian var, menskum valla líkur.

65. Þrællinn leidur innar ód, ordlof kaupir þegi, sem ad heidurs svinna þjód, sat ad staupa legi.

66. Sóti mælti þykkju, þver, og þvar-ann stælti mála: ei er hælt vid ykkur hér, øllum bælt sé rjála.

67. Því er rád ad reynid þid, runnar bráins dala, frægdar dád í fleina klid, fólk sem má um tala.

68. Dímon heitir eyan ein, erg þar skéssa rædur, konstra beitir greyid grein, med galdra vessa stædur.

69. Flegdum meiri fítons ber, forid krapt í mundum, brjóta geira bítur, mer, og banar í kjapti stundum.

70. Blekk er taus sem bik ad sjá, bygg-ir stóran hellir, midjúngs raus þar mikid á, málma þóra hrellir.

71. Ogna ljót og leingi sér, leikur ad ótal hrekkjum; hennar nóti einginn er, Yggs á snót sem þekkjum.

72. Einn sá rumur óluudar, olli gletun heima, sá hét Prumur, sjóli var, sveita Jetunheima.

73. Peirrar gydju grídar ver, girnast fór med, ædi; áttu nidja sídan sér, saman fjóra badi.

74. Vilji hvestu braudhrídar, burda skædir slinnar, en þó mestur Andri var, illra brædra sinna.

75. Ef í daudann galdra gná, gjerid ei skjótast keyra, hugar blauda halda má, hédanaf njóta geira.

76. Gaf ei leidur glanni bid, gékk út neydar stýfur; Marbrín reidur manninn vid, mækir greidast þrífur.

77. Fleigir skída ferd var á, fleina bil ad heýa, hausinn snídur herdum frá, hinn má til ad deýa.

78. Nauda skaupid nokkud tregt, núna gékk ad honum, þarna kaupid þokkalegt, þrjóturinn fékk ad vonum.

79. Gorpum sveigist gaman frá, grímdar hvessir kylja; Høgni segist hamra gná, hitta þessa vilja.

80. Streingja sídan seggir heit, sinnu ei kyrd ad vana, tofra-grídar leggja í leit, lerka myrda hana.

81. Brúdkaup hausti bádir ad, brjótar stála drekki, reijalaust var rádid þad, reyst en brjálad ekki.

82. Sig til búa braguar frí, bríms ad snúa grundu; kvæda lúinn þagnar því, þáttur nú ad stundu.

83. Kvæda — toptur — máttur mér, mærd frá alla hrekur, fræda — skaptur — háttur hér, hrærdur falla tekur.

---

## Þrettánda Ríma.

Sexstudlad Stikluvik.

1. Linna bóla sel eg sól, seinast greina smídi, med fánýt óláns Frosta tól, firda stóla' eg lítt á hól.

2. Tíu eru tals af mér, tjádar skrádar rímur, enda géra' á Öndrum ber, ein fylger, hún kémur hér.

3. Kvæda lídur loks á klíd, þó leingi geingi illa, fyrst og sídast fræda smíd, fram hér býd eg lífs á tíd.

4. Veit eg þjódum þessi ljód, þykja' ei mikils virdi, en býd eg fródum ei minn ód, elda módu heldur slód.

5. Vil þó mest að fólkið flest, findi yndis stundir, minn; við lestur ljóða sezt, líf svo hrestist innra bezt.

6. Nægir mér ef hlæja hér, holdar að gjöldum Óma, og skimp úr géra skakkt hvað er, Skollvalds kér sem eg framber.

7. Óefaður þó veit það. þetta sett að verður, einhvörstaðar uppá blað, eg hels vaði nær stíg að.

8. Aldrei var eg orðsnildar, áður fjáður haldinn, en sízt nú þareð þels um far, þrauta farið margt gnístar.

9. Misjöfn lýða mjög er tíð, misjöfn þýðan gæfu, misjöfn blíða og mótgangs hríð, misjafnt síðar endar stríð.

10. Eydist flest sem yndi bezt, eykur, reyki líkast, hitt ei sjest að hafa brest, hrygð sem festir innra mest.

11. Sæll er sá sem frelsast frá, fári og nár má verða, mannsaungs skrá svo skérðist þá, skikkju ná vill efnið fá.

---

12. Austra fari áði' eg þar, ófa ljósa hlynir, kveddu hara' og hrundirnar, Hárs með skar svo geingu' á mar.

13. Harðfeingt lið í hrotta klið, hlýr-ar dýrir voldu, útbúið með sóma sið, sárs ei kvíðu hríðum við.

14. Piltu — nú á þoska bú, þúngu — lúnga keyrðu, vel sig búa Blinds af frú, bens — með grúa — seiðin trú.

15. Atkér togast uppúr vog ólár á hjól-um marra, merar soga feingu flog, framá rogast græðir og.

16. Seglin há við reirðu rá, rumdi' og glumdi' í streingjum, skeida gljáir skraut-ið á, skein því frá um leginn blá.

17. Þær við greinir kólga kvein, kinds-ug minda náði, blóðug einatt hadda hrein, hefring veinar géðs óhrein.

18. Orgar fjór, en undra stór, æsist hræsvelgs gustur, sundajóra barði bjór, brims á flór og varð órór.

19. Tóku sleg um fiska fleg, filin þilju tíðum, hvein í stegum mastra mjeg, mars við gegur þau óleg.

20. Dægur sextán dælu bekks, dreslar efla vadla, galdra hreggs þá hríðin vex, herku preks með storma pex.

21. Eldíngar með undrum þar, æfar gnæfa þóttu, skúmið bar um skeiðurnar, skélfur mar og uppheimar.

22. Hljóðs óríng þar kváðu kríng, kári' og bára laungum, olli kýngi kélla slíng, konstra glíngurs með særíng.

23. Jóra keyra þoptu þeir, þar um marar veldi, undra meir þó æríst þeyr, ógnar geira hverjum freyr.

24. Hegni samt með géðið gramt, gørpum snerpum býður, sigla framt þó rjúki ramt, rokið framt, það varir skamt.

25. Hrindið þrá úr hyggju krá, haldið galdri móti, eflaust fáum allir sjá, yrpu gróa Dímon á.

26. Atján dægur dróttin fræg, dvaldi' á mjalðurs eingi, sirpan slæg var sár-mein-bæg, sæmdar hæg og géðs óþæg.

27. Dímon fá þó síðan sjá, sverða njerðir traustu, kélling þá mjøg brún í brá, brjálast lá við hamra ná.

28. Legðu' að ey, en festu fley, flóða glóða njótar, vildu heya hjørva þey, við hrekkja grey á Vidris mey.

29. Settu' í tjøldin síðan eld, síla býli nærri, með útveldu oturs gjøld, áttu høldar náð það kveld.

30. Að morgni dags um foldar fax, fóru þórar branda, búnir strax til branda slags, með benja laxa, kylfur, sax.

31. Bragnar sáu hamra há, hánga, þángad gánga, hellir kná þar kélling á, kjapta flá og andlits blá.

32. Kvedju bjó þeim kletta nó, kalda galdri medur, eyrri spjó úr kjálka-kró, kaskur þó svo margur dó.

33. Hegni segir: hjálpar ei, henni menn ad vægi, hoggum beigjum hreckja grey, hún svo deyi stáls vid þey.

34. Annars fridi eydir lid, eytri heitu medur, utan bidar byrjum vid, branda klid vid meinvættid.

35. Klumburót ad kletta snót, keyrir freyrinn mækja; kélling fljót med kjapti á mót, kémur, og ljótu góma spjót.

36. Allir senn þar afreks menn, á hana slá med brædi; klær út glenuir kéllíngen, og kjapt upp fleunir stórskorenn.

37. Tófrum súdud hyrju húd, hrotta spotta nádi, eytri spúdi' úr barka búd, bana lúdist øldin prúd.

38. Nú ad ridar náttmyrkrid, naudum daudans ofrar, skatna lid því skafs-kvend-id, skildist vidur svobúid.

39. Tjøldum hradir héldu ad, hirdar byrdar Grana, fullt hundrad þó hels á vad, hermt er þad, um daginn trad.

40. Dag annan ſig dróttin vann, dúda ſkrúda Hildar, Týrs um ſvanna tróð hver mann, trolls í rann og kélling fann.

41. Ypu ſá þeir inni ſjá, ædi hrædilega, henni lá nú ofugt á, ílits blá af heipt var þá.

42. Ita beid því aungva neyd, óttadiſt þróttug bridja, eytri greidaſt góms af heid, guſadi reid, þeim lá vid deid.

43. Helgi, Marbrín Hárs med ſkar, hoggin ſneggu greidir, og hver þar ſá hreysti bar, húd ei ſparar gydjunnar.

44. Hegni ſlær til horku fær, hamaſt ramur nádi, med góma ſkærum geddum nær, galdra mær til ills frábær.

45. Fleinn var laus en tefra taus, tíngud kýngi-hrekkjum, eytri gaus, þjód eyda kaus, ærulauſan ſkékur haus.

46. Hinna brandar bitu' ei grand, biſt ſig hriſti vidur, klærnar þandi kíſs vid ſtand, kjapt geiſpandi med (í bland).

47. Buga mátti fenju fátt, fleina hvein í bledum, hrotta ſlátt í hverja átt, heyrdi kátt ſvo lidid þrátt.

48. Enn ſem fyr þeir efldu ſtyr, undir dundu bjorgin; vid hellis dyr lá kélling kyr, kjapti mir hvad er fyrir.

49 Eingin teit, þar eggin beit, þó á henni þráðalt smelli, bræði heit um hjartans reit, helda sveit hún reif og sleit.

50. Sigrað ekki eldin fékk, arga bjarga þrúði, hels á bekk í hamra stekk, hlutu rekkar bana smekk.

51. Dagurinn leið en dróttin beið, dauða nauð af flagði; Högni reiður róms af heið, ræðu greiðir um það skeið.

52. Kann ei vinnast kéllíngin, klóta af njótum frægu, kjapturinn er æ opinn, útbúinn með skaðræðin.

53. Hlaupum á þá galdra gná, geir með tveir í einu, kyustra sláum kjaptinn grá, kannské nái' hún dasast þá.

54. Æstíð Marbrín otull var, eggja hreggið viður, Hárs með skari skundar þar, til skéssunnar og fljótt sig bar.

55 Hugði stærir hjors frábær, helju velja flagði; tefra mærin teigði klær, til hans nær þá var ei fjær.

56. Þau við undur fjörtjóns fund, fánga strángan mátti, kreisti sundur klóta þund, með kjapti' og mundum galdra sprund.

57. Rak hann þó í kjálkakró, kargrar bjarga nennu, eggjaða gróu' áðuren dó, illsku nó svo blóði spjó.

58. Veinadi Marbrín mikid þar, þá muldi hún hold og leggi; Hegni snar þá hísa var, og hetjurnar med Jólnis skar.

59. Illa fór sá fleina þór, frægdar nægdum vafinn, hels á slór í hamrakór; Hegni órór þann eidinn sór.

60. Burtu hér ei fyrri fer, en fleina reynis hefni, ella fjerid mitt úr mér, mellu-hrerid kreista fer.

61. Hýda grjót á galdra snót, garp-ar snarpir sídan, þau vid skjótu heiptar hót, hyrjan blóta dasast ljót.

62. Leingi króar kletta nó, klóta njót-um vardist, um sídir dró af syrpu þó, sómaskjó svo lokfins dó.

63. Brotin, marin bridjan var, blá ad sjá af heggum, tennur þarmed tapad-ar, Týs og skar í kverkum bar.

64. Marbrín skadi monnum ad, mik-ill þykja nádi; hálft annad í bana bad, bragna trad þar fullt hundrad.

65. Lands um slód þó leiti þjód, leingi, einginn finnur, herknara sljód med hreysti mód, hjors er rjódum móti stód.

66. Runnar stála biltu' í bál, búk ó-mjúkum syrpu, en hepti' og mál um hvert sór sál, hamra fálu lífs vid brjál.

67. Kappar snarir kanna þar, féllu hellir síðan, fúndu, bara forn það var, fosnis mar og gérsemar.

68. Báru heannar burt þaðan, blossa og hnossin seggir, en Hogni kannar hyrju rann, hús þar annað minna fann.

---

69. Hérvið dvínar mærðin mín, mána ránar nanna, þyggi línur þessar fín, og þundar vín að gamni sín.

70. Lasin hér þó ljóð frá mér, líti ríta brjótar, ummæler það eptir fer, óma kér sem prýði ber.

71. Eins hermist mitt heiti styzt, og hans er vansa geymdi, hvørs til fyrst að færði Krist, fólkið bist, þá hann kvaldist.

72. Vigra grér sá vizku ber, vyrði og hirði ljóðin, seint því hér og illa er, óma kérið boðið þér.

73. Læðast frá svo fræða skrá, fer eg hér umsíðir; græðis bláa gleðu ná, gæðin fái og kvæðin hjá.

---

# Fjórtánda Ríma.

## Hálfdýrt Stikluvik.

1. Á Andra Rímur endahnút, einhvør reka skyldi, og skálds með rímur æra út, af honum Grími Bo:nar lút.

2. Skáld ef vildi leggja lið, ljóðum hér vantandi, yrdi snildar orda klið, af fordildar bragar smið.

3. Skáldin nýu — veit eg — vart, vilja um þetta efni, sýnast fríast ódar art, eda drýgja mærdar skart.

4. Trolls ad vanda tídir þær, trú'jeg vart þeim þyki, það er standi þeirra fjær, þvíad andinn hærrá nær.

5. Nú vill einginn ýta hér, Andra fjølga Rímum, jeg tilfeinginn var því ver, ad vesæll dreingur til þess er.

6. Efnis dreigid orda prjál, øldum kann ei sýna, þótt eg hneigi brag í brjál, bjagast eigi heilagt mál.

7. Mín ei hjalast mærdin høg, menn skal einga hnjóda, Vidris sala vantar løg, vanda skal ei kvædin mjøg.

8. Klasturs bætt þó bjódi hér, brøgnum kvæda smidi, ekki' í hættu hundrad er, hródrar þvætting fyrir mér.

9. Minda' eg djarfan mønnum ód, med gáleysi støku, kíss um starfa kynja þjóð, kveda þarf í jøtunmód.

10. Ef ad segja satt skal lýd, svona því á stendur, vers um hneigja virda stríd, verd eg feginn drísa tíd.

11. Pad er von ad valla hér, vísna saungur láti, því margskonar bøl frá ber, bisurs sona drykkju mér.

12. Bid eg géfni gudvefjar, góð ei ljóð forsmái, fram þó stefni møndulls mar, minn ad efni søgunnar.

13. Er mín bón, ad øldin svinn, undir-sýngi medan, birtu lóna bólm eg minn, ber-serks tóna pistilinn.

---

14. Adur bródur bilun bar, bragnar þagni' og hlýdi, sem Andra-móðir unnin var, og á glódum brunnin þar.

15. Heldar kanna hellir þá, hrúgudu drjúgu gjaldi, fundu rann í bergid blá, brutu' upp þann og inn þar gá.

16. Fosnis bólid fundu þar, í flýtir líta meyu, sat á stóli gullhlads guá, gnóð-ar sólu fegri' ad sjá.

17. Sáran ekka bʼugſkort bar, en býdur lýdum þekka, ſtreingd med ſlekkjum herdu var, hún vid bekkinn nidur þar.

18. Hjuggu-rekkar fjetur frá, falda valdri línu, Hogni gékk ad niſtis ná, nafni þekku ſpyr ad þá.

19 Boſleit vard þó bæri mód, blíd kvatſi Fridur heita, Kænugarda kon- úngs jód, Kolbeins harda nefndiſt ſljód.

20 Spurdi óhreldur Helgi bert, hýra víra nennu: hvørju veldur ad þú ert, ángri ſeld og bondum hert?

21. Kæran ſvarar kurteíslig; kéllan mellan Andra, med hamfari hreifdi ſig, og híngad ſnaraſt flutti mig.

22. Bléti fylda bríſlan ód, baud mér aud í mʼradum, þad ei vildi eg þrúngin mód; Prándar ſkyldi eg verda ſljód.

23. Ei mun ſpillaſt adferd ſû, ekkert blekkir ſkéssu, til þess vill mér naudga nú, neydin kvillar ſinnu bú.

24. Helgi brádur hjal gaf til, hels þig ſrelſum dróma; þó med dádum þad áſkil, þínum ráda koſti vil.

25. Ottaſt þú ei ſkémdar ſkaud! ſkrafadi ſtaſur vopna, hann er flúinn hels í naud, hans er nú og mellan daud.

26. Hans ættbádma høggin stinn, hafa kafid nidur, hlýjan fadma sær ei þinn, fletinn mjadma nýsprottinn.

27. Grídar valdi frelsud frá, fríast því skal lýsa, ydar valdi vil eg á, vera, falda sagdi gná.

28. Brynjud þjódin skjót med skil, skeidadi leidir burtu, medur fljód og unnar il, ofan tródu strandar til.

29. Burtu hrestir búast þá, bragnar gagn-audugir; strax landfestum lausa frá, lægis hesta bodar slá.

30. Vindur hradla flutti far, fram á glamma stryndi, súda vadlar sudu þar, súngu kadlar vísundar.

31. Altrei gérir eldin bid, unz ad grunnsæ kénna, mastra hérum lífad lid, lenti skérin Elfar vid.

32. Lýdir slíngir litu í svip, ljóta þrjóta fyrir, sex víkínga voru skip, von ad þínga fjárins grip.

33. Sóktu' í glett ad sveitinne, sagdir Agda makar; Hogni frétti hver þar sé? hrumnir grettur ansade:

34. Eg um grædir yfirbod, á og Þráinn heiti; medur skædir Vidris, vod, vid erum brædur þrír á gnod.

35. Hildargjernu heimsálfur, hlýrar dýrir kanna, jafnir að vörn sem jeg sjálfur, Jorunbjorn og Finnálfur.

36. Við óríkir stórs við stjá, stýfu kífi ráðum, Kolbeins hlýra kalla má, Kænustýrir-garði sá.

37. Þaðan fljótt á mastra mar, mætrar sætu leitum; brott um nótt úr beði þar, buðlúngs dóttur stolið var.

38. En, hvaða nafnið hefir þú? halur galar trylldi, nú skalt hafna friði' og trú, ef felur drafnar loga brú.

39. Hirðir branda hraustur tjer: hér á veri sila, son Héranda Hogna sjer, blekk er banda geymd hjá mér.

40. Minn fóstbróðir frækni hér, fjelgar Helgi vígum, Hárs sá glóðir hallar ber, hlífa þjóðum valla fer.

41. Herraud sterð og hlýra minn, í Hildar — gildan — voðum, þér mun verða þúngleikinn, þinn og skérða heiðurinn.

42. Hyrti vengis einum á, unnar sunnu bjóður, hafði dreingi hitt um lá, hraustu meingi réði sá.

43. Gamanið stirðnar gorpum hjá, grimdar dimmdi' að eli, berserkirnir belja þá, beima fyrnar reddin há.

44. Eggjaði Högni eptir það, ýta nýtra sína: skjóma gegnum skundið að, skyrtur Rognis slíta bað.

45. Sér í þreingðu geira grip, Gendlar hendla túka, saman teingðu skatnar skip, skotum sleingðu rétt í svip.

46. Geirs ásellin gripu sjer, gnísti víst í málmi, bifast hellin humra ser, hrína trell og berserker.

47. Skémdist þjóð af skotvopnum, skjálfa gjálfurs klettar; hraustur vóð í harðneskjum, herinn blóð á þiljunum.

48. Þráinn kalla þrúnginn fer,: þið á liði vinnið! heiptin svall um hyggju skér, hemuðust allir bræðurner.

49. Grenja kargir megni meir, merg við bjergin súngu, eins og vargar urðu þeir, undra margur fyrir keim deyr.

50. Þráinn voðans þúnga fár, þegnum megna sendi, fékk sá hroðið hrumnir grár, Högna gnoðir mestu þrjár.

51. Mergum dauðum fleigði frí, fólinn ból á hvala, ógna kauðinn orgar því, er sótraúður framaní.

52. Stóð við téðum hrum ei hót, hö'ða fjeldi menskur; Högni veður honum mót, hrottann með í axlarsót.

53. Hilkar rekkur elid á, eda brædi medur, blossi hrekkur steinum frá, fólkid stekkur undan þá.

54. Hver vill granda hinum þar, hrett-ar spotta skyldi, í hverju bandi braka var, bifdist land ókyrdist mar.

55. Bardust ódir, gjørdi gný, geira þeyrinn strángur, svitinn blódid blandast í, bifurs glódin lodnar því.

56. Hjálmar skérast heggin vid, hard-ar skardast brynjur; Hegni sjer, ad svo búid, sízt má vera branda klid.

57. Medur afli bæsíngs blad, beitir hneita reidi, klífur hafla heggid þad, hrekk ad nafla-fjødrin-stad.

58. Búknum garnir féllu frá, felur hel-id krapta, eptir þarna látinn lá, líksaung arnir hófu þá.

59. Helga varnir meta má, mækir frækinn reiddi, Jotunbjarnar byrding þá, blossa tjarnar grér hljóp á.

60. Sízt ad gætti sér merkur, svarta parta lýdi, sk. ins í slætti sjer-sterkur, sýra mætti berserkur.

61. Helga skeinir geirs vid gný, gétum hét sá Brandur, atri fleinsins oddi því, inn ad beini lærid í.

62. Sverða tregðu sízt fær þént, síðan fríður glæstum, Helgi bregður hjör af ment, heggur flegðu nið í tvent.

63. Björn fram óð þar brandur gall, brynjaður kynja-digur, Helga blóð um víða vall, varðist móður einsamall.

64. Samt á móti fanti fer, fleina reynir harði, lagði hótin herð sem ber, hans með spjóti kverk under.

65. Inní barkann oddur smjó, og útum þrútinn hnakko, en við snarkar andar þró, af því harki sólinn dó.

66. Hafs á jörinn hneig blóðtjorn, hrikinn bliknar síðan, svelnir stóri sviptur vern, svona fór hann Jotunbjern.

67. Aðsóln gjörir brims á bekk, bésum gróju hinum, hrodið knerinn Helgi sékk, heljar ferin margur gékk.

68 Regnis bjálfum búk-vasinn, bistur hristi núna, skók Finnálfur fleininn sinn, fanturinn sjálfi ram — aukinn.

69. Púngt blés viður þrælmennið, þrístinn gnísti tennum, skrímnir biður skálka lið: Skeglar hviðu herðið þit!

70. Bitur neðru blóðs hríðen, brast á hastarlega, litast sjeðrin sára senn, svita leðrum atast menn.

71. Gullu andar talin tól, tregast jeg því ljóðin, fullur vandagalinn gól, gullinbanda valin sól!

## Fimtánda Ríma.

### Oddhendíng.

1. Mjög á þýngist mér ókríng, málsfundíng aldýra, Oddhendíngu' eg aptur sýng, að meiníngu ríra.

2. Vandi gérist, von það er, vísur hér að bjóða, svolun mér ei sæta lér, Sónar kérið góða.

3. Hjá mér vista ljóða lyst, lukkadist aldregi, en bragar þyrstur fyrir það fyrst, frá sneipist þó eigi.

4. Undir slit eg aldrei sit, Óði lit á géra, munu því vitrir mærðar rit, margir Criticera.

5. Ef því sinnir unni minn, mærðir spinna biður, ber eg, twinna tróður! inn, trolla minnið yður.

6. Svipti móð af sinnu slóð, sögnin óðar kynja; géfið hljóð! því hrugnis ljóð, heyrnar lóð á dynja.

7. Þar nam bída brazar smíd, bauga hlíd ad gáum, enn sem lýdir áttu stríd, útá vídi bláum.

8. Finnálf sjá og Herraud hjá, hardir fá sig reyna, lýa þá hvor mest sem má, mistil — bláu — teina.

9. Hjálma bird í skárust skerd, skatnar verdust, sækja, blóds ad gjerdi falla' í fjerd, fleidradist jerdin mækja.

10. Herrauds mundin hjó um stund, hart á sunda gøltum, Vileifs tundur bist-ist lund, biladist undir hjøltum.

11. Slotti þrjótur geirs vid rót, grimd-arhótasamur, hraustum móti hringa njót, hreifir kléti ramur.

12. A kom lærid og sig fær, 'eggin nærra blódi, hné skél nær, med hjugguft tær, hopar fjær hinn módi.

13. Høgni sjer ad svona fer, sídan hér-ad vendi, reidur er vid Finnálfs sjer, fleininn ber í hendi.

14. Gaurinn þá nam slýa frá, fært él sá ad bída, skip hljép á því næst kann ná, nadda þrá úr hýda.

15. Hundrad eitt vard hrumnir veitt, herlid meitt úr slagi, burtu þreytt svo fékk sér fleytt, fólkid þreytt um ægi.

16. Á lúngum flóda líkin, rjóð, láu' í blódi sundrud; af Högna þjóð sem áfram óð, eptir stóð fimm hundrud.

17. Herinn-knár sér fleytti frár, ferda gár til hradur, margur sár med svida fár, su nur nár bliknadur.

18. Vodin hér upp hafin er, hræsvelg gérir spenna, Elfarskérum frá svo fer, fjala hérum renna.

19. Aldan brast en brakadi bast, bísna hvast var leingi, ljónid mastra fleigdi fast, fram um rastar eingi.

20 Línadi vind en litu strind, lofdar yndis fjádir, ad hefnum synda súda hind, seggjum lynda nádir.

21. Fróns Háloga funda vog, festu tog þá rekkar, medur rogast marar log, mjędinn og þar drekka.

22. Sjóli þá var fallinn frá, foldar stjá inn lúni, Hegni má þei frónid fá, sidradur bráins dúni

23. Krendin blíd um hyggju hlíd, hlynum skída fagna, en vekur kvída landsins lýd, laufa hríd ad magna.

24. Jólkid snarast fregn þá bar, frey um skara dýkja, í Omd sá var og brynju bar, brytist þar til ríkja.

25. Ragnar hét sá hvergi lét, hopað fet um slóðir, mikil hetja málms við hret, Marbríns gétinn bróðir.

26. Högna reiðum svoddan sveið, sig liðs beiðir kríngum, og strax á meiðum gjarða greið, gjörðist leið víkíngum.

27. Hundruð átta hjers í slátt, hafði máttar ríkur; Ragnar knátt með fólkið fátt, frétti brátt af slíku.

28. Hundruð þrjú á Hnikars frú, hafði búin stríði, þegni trú var þjóðin sú, þessum nú að hlýði.

29. Ragnar fer sem randir skér, rekkum her á móti, þegna hver blóð-þyrstur er, að þrífa sjer með kloti.

30. Saman lístur liðið bist, lausa hrísla friðan, nokkrir mistu veraldar vist, Valhell gistu síðan.

31. Högni véð með Gínars glóð, grimdar móði fyldur, banaði þjóð og lóma lóð, laugaði blóði gildur.

32. Gneistum brá þar geirum frá, gondúls lá um flýgur, gufan bláa hitans há, himininn á uppstígur.

33. Ragnar sjer, að sinn féll her, særður hér af þegnum, lýði skér og laufann ber, liðið fer ígégnum.

34. Kappinn hjó, um fylkíng fló, fird-um hjó daud — stínginn; allir þó að eyda ró, um hann slóu hríngin.

35. Hendlum vér hann, Helgi tjer, hrotta grér inn væna, Marbríu hér því annar er, ýta fjeri ræna.

36. Allir senn med Tyrfings tenn, traustir menn ad kémpu, skjöldum renna, rekkur enn, Rögnis grennir hempu.

37. Mörgum barda skémdar skard, skjóminn smardi frídi, í þeim harda hlífar gard, hendladur vard um sídir.

38. Budu grid og fullan frid, fleina vidi barmar, félags vid hann festu sid, féllu nidur harmar.

39. Veiz'lu brátt þeir hefja hátt, med hörpuslátt og óra, gjördist kátt, því drekk-ur dátt, dróttin máttar stóra.

40. Parad sneidi þundar skeid, þagn-ar meidi boda, sem Finnálf reid um laxa leid, lúngi greidum voda.

41. Kænu — hardar hitti — gard, hlynur jardar dreka, segja spardi sízt er vard, svíptur ardi freka.

42. Segist meina silki rein, sinni fleina vidur, Högni' er skeinar hvors manns bein, Héranda greinist nidur.

43. Í Elfarskérum áttum vér, orustu svera brædur, féll minn her, eg flúdi hér, fólinn er ofskædur.

44. Práinn hjó med kaskri kló, kaudlinn fróa tregur, hann svo dó og hinn í smjó, hjörinn ólegur.

45. Hárs í vedur honum med, Helgi tédur Frækni, Herraud sédum list er léd, lausa medur spækni.

46. Eingimn má í málma þrá, megna fá þeim pínu; gilda þá svo greinir frá, og gunnum bráins dýnu.

47. Kolbeinn ansar kóngur lands, kvisti brands ófrína: hrædslu vans í Skilníngs skans, skékkir sansa mína.

48. Hrædsla mér ei hermúng ljer, ad Hegna bera vigür, honum fer ei hót fyrer, hvad sem er hann digur.

49. Finda' eg hund, sem hefir um stund, hrisid sprund frá þegnum skyldi hann sundra medur mund, minni í unda regnum.

50. Frækna lid mér fylgja bid, fleins ad hvidu renni; strax án bidar glatist grid, gullu vid blámenni.

51 Rusta gélur raddar hvel, ríta jel ef skédur, sversum hel í holda vel, hlífarþjelum medur.

52. Arta hér sem hjalad er, Hnikars bera tóru, bragna her sá britjar hver, berserker þad' vóru.

53. Þeirra mestur Sorlisiest, Sóti, Brestir, Nadur, Vikar, Géstur lýd sá lesi, og Ljótur vesti madur.

54. Borkur snar hjá Þrjótum þar, þessi var áttundi, merkid hara bófinn bar, bengjerdar á fundi.

55. Her sinn bjó ad hafna ró, sem Hildar sló á vellum, úr Túnum Nóa drjúgt ad dró, af dygda sljóu trollum.

56 Bors um víf ad kjósa kíf, kom med líf óhrædda, saman drífur sveitin stýf, sú járnhlífum klædda.

57. Hillilegs til hrotta pex, harkid vex þeim undir, stála hreggs til viku vegs, vomar sex þúsundir.

58. Bendin reira á búsum þeir, bannadir meir en skálkar, ödum keyrir áfram þeyr, unnis trevra jálka.

59 Hermenn þá af humra lá, haudrid á upp stígá, tjøldum slá med gylta gljá, gaurar þrá til víga.

60 Fólkid lands í flúdi krans, fanta vans er hádu, fóru ranns til fóringjans, fréttir sanns og tjádu.

61. Herflokk gráum herma frá, hvarma=sáust-elfur; Högna brá sem heyra má, hamadist þá og skélfur.

62. Bragna hver þreif hvassan dør, Hvatmóðs spjør sig vefur. Pandar kner í þagnar vor, þrotinn svorum tefur.

63. Kynja móður kvaks um slóð, kved eg ljóðin sprakka; mun ei góða meyjan rjóð, mér fyrir óðinn þakka.

---

## Sextánda Ríma.

### Aldýrt Studlafall.

1. Strax um þjóða stirjøld hróður sækja, sagan fróða, heyrid, hér, hassar góða vøll=inn mér.

2. Góma rimur geir, en hvimar vída, kvæda fimis vantar vit, vitrir skymi brags í rit.

3. Ekki verdur, eg svo berdist frækid, ad laugad herdist hér vid ljód, Heimdalls sverd med Kvasis blód.

4. Mælsku nadur máls eggjadur valla, gleymni skadad hefir hann, heykir þad svo kved=andann.

5. Sagan varnir sínar hardna lætur, en eg er barn vid berjast þá, og bragar garni reirda fá.

6. Mig á flótta frá sér skjótt hún reki, jeg ad óttast fyrir ser, því fræda gnótt ei lid: sinner.

7. Ædru kéndur allt í lendar nidur, valla sendist vit í haus, vid þad stend eg rádalaus.

8. Eitt má velja ód svo beljad géti, út skal kvelja' ad leggja lid, loddu stjelja búkhlaupid.

9. Mér og lyndir med því blinda sögu, og hana binda hérmed skal, hródrar minda nidur í sal.

10. Yfir rádum er því nád ad kveda, hyrjar gráds á hreisíngar, heyrdu ládin gudvefjar.

---

11. Hlidskjálfs sjóla haukur rólid misti, svofnis bóla—sem ad hver,—sendir, kjóla Vodins ber.

12. Þángad fría þjódin nýar flokka, fleins ad drýgja fárvidrin, fimm og tíu hundrudin.

13. Högni sendi Hárs um kvendi Ragnar, strída vid kéndan atvik öll, átti fjendum hasla völl.

14. Kappinn stinnur kom að hinna búðum, og frá kynnir ýmu stað, í bað minni leggja það.

15. Kolbeinn þetta kóngur frétta náði, aðspyr grettur heiti hann; hinn það rétta greina vann.

16. Aptur fljótt spyr oðlíng þóttalegi: hverr af tróttum hermðu frá, hvilir dóttur minni hjá?

17. Ragnar svarar: rumurinn þartil heyrðu, móins skara mork eg ann, mig faðmar hún alsberan.

18. Utan tregans elskulega henni, aðlæt þegar undir voð, yndisvegar stýri gnoð.

19. Þó við uni ægis funa gérði, lítið mun eg þakka þér, það í grun má leiða sér.

20. Því til heljar þig eg kvelja vildi, þar sem belja blóðfossar, og brandar melja hlífarnar.

21 Fyrirlitinn færðu vita dóli, þig mun bitur skemmin ské, skjalda slits í drífunne.

22. Eins berserki bísna sterka þína, sporin merkja mistilteins, meður verkjum heljar kveins.

23. Þeingill heyktist hérvid eyktar tíma, skrokkinn veikti heiptin hál, hjartad steikti grimdar bál.

24. Hrópar samt med herku ramt atkvadi, látid skamt þann hlaupa hund, honum framt þid vekjid und.

25. Hvergi fól sá honum ólánlegra, steglist hjólum, stiflist önd, strák ef ólar reira bönd.

26. Ad honum sækja sídan klækja vinir, en hvergi frækinn hopar frá, hordum mækir þegar brá.

27. Sá hét Géstur sem ad bezt fram geingur, hrikan lesti heggid þad, hjóst ad mestu' í nafla stad.

28. Ragnar sá ad rumar ná sér mundu, atti knáum hósa hund, hernum frá á samri stund.

29. Rakkinn hríngju rann um dýngju smára, unz fylkíngar Hogna hann, hitti slíngur listamann.

30. En tilbúnir allir núna vóru, vígs á túnum vinna þar, veg ad snúnir rómunnar.

31. Spjóta reynir spjallar greinilega, af orda steinum eldúnges, og frá meinum líka Géstś.

32. Hogni tjer: þú hrósið ber af lýð-um, bezt hjá mér við branda far, í brjósti ver þú fylkíngar.

33. Arm fylkíngar í var slíngur vinstra, Helgi slíngur hjör að þvo, hervíkinga laungum vo.

34. Listamægri lýðum þægri flestu, arm í hægri Herraudur, hend með frægri vopnadur.

35. Er til búinn allur grúi manna, mjøg að knúinn morði fri:ð; en, mærð tilsnúi skálkalið.

36. Þeir af tjøldum þys í gøldum reisa, þakin skjøldum þjóðin er, þánka køld og sverðin ber.

37. Kóngs ófrína Kolbeins hrína lýðar, og rétt á Einars rekkvoðum, raða sínum fylkíngum.

38. Herraud' móti hendir klót Finn-álfur, má og Ljótur mæta hal, með þeim Sóti berjast skal.

39. Hinumeginn hrikar þegi linir, Sørli beigja brandinn réð, Brestir segist honum með.

40. Helga viður hrotta hvidu magna, áttu friði fráhverfir, fálu niðjar ham-ramir.

41. Kóngur bjóst med føldum þjóst í hjarta, vopna gjóstinn vekja snar, var í brjósti fylkíngar.

42. Borkur merkid bar hinn sterki haudi, Vikar herkinn var og þar, Vidris serki rara skar.

43. Haudinn Radur keppum skada veitti, víga hradur velli á, vopn-tħadur þeşøum hjá.

44. Lúdrar gjalla, lýdir falla rómu, vistir falla vergunum, vidur gall í bjergsunum.

45. Strax holundar æda dundi straumur, vellur stundi valmeyar, vidur undrin skothrídar.

46. Spjótin yddud sporin briddu raudu, áta kriddast ørninni, í blódslíddu kafaldi.

47. Yfirbugast ærid hugarstóru, strídseflugu jetna jód, járnin flugu, rignti blód.

48. Bifdist vota Bileifs motrar lína, medur þrotid fjør og frid, fyrir skotum hnígur lid.

49. Hjørs í glammi Hildar þramma túnid, bísna rammir berserker, brutust fram úr Kolbeins her.

50. Heggorustu þessa, brustu málmar, margan lustu helo í hel, hardsæknustu þessa tel.

51. Sorli vestur særdi flesta lýdi, fylgdi Brestir bósa þar, bádir lestu hlífarnar.

52. Arm sy'kíngar allan slíngir bugo. Helga sýngur sáraljár, sá víkíngum frár ad gár.

53. Bidur sídan betur strída meinai, minn skal snída holdid hjör, hrikans, lýda sjái hver.

54. Sorli mætir sídan gætir láda; eggtein vætir orku snar, undin grætur blódi þar.

55. Hegg á dundi hyrju kund og sneiddi, vidur fundinn vopna dins, vedvann sundur handleggsins.

56. Stód í beini brandurinn hreineggjadur, optur fleini Helgi hjó, heljar meinid Sorla bjó!

57. Hjálminn klýfur hausinn rífur líka, bríngu stífa hegg í hjóst, hérvid líf úr ædum dróst.

58. Hels í naudum hafdi dauda teigjur, rúinn audi seggir sjá, Sorli haudrid fellur á.

59. Brestir þá í branda þrá, erdugur, hrekja náir Helga lid, honum má ei standa vid.

60. Helgi sjer ad hardur er sá dóli, ad Brester því æda réd, unda skérann bitra med.

61. Brestir móti branda njóti kémur, lagdi spjóti, búinn bezt, brynjan hót ei sakadest.

62. Kundur mellu knár ad smellir stáli, hart á bellur Helga koid, hann svo fellur lagid vid.

63. Spratt upp aptur spjóta raptur frægi, medur krapti hrotta hjó, hins svo gapti svardar þró.

64. Allt í tennur ofan reunur skjómi, Brestir kénnir daudans dá, dóttur spennir Loka sá.

65. Vidris bedju vall um edjan dreyra, margt þá skédur undir eius, yggjar vedurs rof til meins.

66. Hogni lerkar Hildar serki drjúgum, fátt þeim sterka fyrir stód, framad merki Kolbeins ód.

67. Kolbeinn eggjar kóngur seggi harda, og sjálfur leggur ordugt ad, odda hreggid vox vid þad.

68. Hittust síðan harar stríðlyndaðir; en, viðbíður óður minn, audgrund blíð, í þetta sinn.

69. Lítt mig gleður lystugt meður yndi, mærð þó kveðist mín sjálig, motrar beði fyrir þig!

---

# Soltjánda Ríma.

## Hringhenda.

1. Vekjast ræðan aptur á, Andra fræðin bíða, óskast, klæða géðug gná, gjöri kvæðum hlýða.

2. Það mér veltir mærðar móð, minnst ef þreytist eyra. Andra heitins laungu ljóð, læt ég sveitir heyra.

3. Helzt í tómi hygg eg að, hvørnveg dómar ræða: dilli rómur, þykir það, þægstur blómi kvæða.

4. Finni brekka sunnu sjóðs, sinn ei smekk í stefi, þarf eg ekki hugsa hróss, hún mér þekka géfi.

5. Márgra næmi sýnir sig, sem nákvæm-ast hnjóða; veit eg dæma misjafnt mig, menn í ræmi ljóða.

---

6. Brandinn góma brast saunghljéd, brúdi frómi gledja, þar sem róman strángа stód, stynur Oma bedja.

7. Kolbeinn lætur brandinn blá, baugs vid særi góla; Hildar stræti hardur á, Högni mætir sjóla.

8. Ymsum sk-ll þar hœgg á hlid, hlífar valla duga, þar ei spjallast grand um grid, grimdin svall í huga.

9. Leingi styrdt þeir lemjast á, líkir vyrdtust árum, hlífdi Skyrtau Hegna þá, hann og firti sárum.

10. Hver nam greida heggin stór, hjørs í neydar þálsi; af þeim freidir unda bjór, allt var á reidi skjálfi.

11. Jetuns kárnar jarka fold, jøfrar sárna framan, grimmt ijárnin gnúdu hold, gnúdu járnin saman.

12. Kolbeinn særast meira má, málmar skærir klíngja; Skyrtan fær ei skadast þá, skatnar nærri springa.

13. Blódid sprænir fleidrum frá, frækleik rænir harda, hlífar vænar hjuggust á, hilmir Kænugarda.

14. Benja idur belja þar, brátt tók vid þeim haudur; fleins í hvidu fylkir snar, féll svo nidur daudur.

15. Høgni fær sér hvíldum ná, Huikars mær á þrúnginn, héðan bærast hvergi má, hann var nær því sprúnginn.

16. Ragnar sterki raudir ſkér, Regnis serki snídur, mætir Berki bauga ver, bar sá merkid strídur.

17. Fólſkan brennir firda snart. fridur grenniſt seggja, saman renna heldur hart, hoggva senn og leggja.

18. Válid Lendúngs bruna med, Barkar rondum eydir, en Ragnars hendin herku léd, hjalta vondinn reidir.

19. Medur harki stála staf, strax á markar gérdum, hjóddi Barkar hausinn af, hér var ſtark á ferdum.

20. Frón á ſkéllur fleina grér, fann ei elli bjúgá; merkid féll, en sólarner, feingu hrelling d. júga.

21. Eggjadi Radur þrjóta þá, því fram hradur vendi, Ragnari madur mætti sá, mest þó ſkadans kéndi.

22. Róman þreytti rekka snart, rondum greitt af mana, Ragnar beitti hjervi hart, honum veitti bana.

23. Herraud greinir frægum frá, fóla ſkeina gjordi; Ljótur hrein og brandinn blá, bar ad fleina njerdi.

24. Hérna mættust hardir tveir, hjervа sættu legum, laufann vættu leingi þeir, lífs í hættu flögum.

25. Skjoldinn Ljótur Herrauds hjó, hjers í rósi sneggur, hinn í móti beu tilbjó, brandi fljótast hoggur.

26. Hoggá spángar hjálminn blá, hér á fángar tillu, laufinn strángur Ljóti frá, losadi vángasyllu.

27. Hart fram Sóti sækir þá, sídan mót Herraudi, hédan Ljótur hvarfl-ar frá, hernum, blótar kauti.

28. Er hann þá sem ekki sár, ulla þjáir hrínga, dólgurinn blái digur og hár, drepur Hálendínga.

29. Meidum serva bana bed, bjó í djersu hjaldri; undan hersa herinn réd, hönudum erva baldri.

30. Aldrei þverrar adsókn hans, ógn í hverri brádur, hann ad snerru herdum dans, hálfu verri enn ádur.

31. Fólinn vaskar fylkíng svelt, flein-ar laska neingi, Ljótur vaskur sékk þá sellt, fimmtíu kaska dreingi.

32. Kauta fá nú þegnar þraut, þyrp-íng slá hann kríngum; eru þá í augad skaut, einn af Hálendíngum.

33. Lítid mæda svelnir sár, saddur brædi trega, samt fram ædir bólginn blár, og beljadi hrædilega.

34. Tók ad drýgja trölldóms skap, tryldur því fram sótti; bósinn fríast bragna drap, brást ad nýu flótti.

35. Undan flýta seggir sér, svertum býtir pretta, hart svo ríta hríd drýger, Helgi lítur þetta.

36. Þángad vedur blódsins bad, búinn gédi fría, Ljóti tredur ordugt ad, yggjar vedur drýgja.

37. Arfinn grídar espast réd, ulli skída móti; Helgi strídum hrotta med, hönd af snídur Ljóti.

38. Medur heilu höndinni, hegg ó-veila greiddi, ríta feil bjó röndinni, rum-urinn deil af sneiddi.

39. Skjótt á lærid skjóminn rann, skadast fær því brynja, frídur særist særida mann, sveitinn skjær nam hrynja.

40. Stála hristir hopar frá, hann þó bistast kynni, búin listum brynjan þá, biladist fyrsta sinni.

41. Herjans tundur hóf frægur, hyrju kund á móti, skélfur grund þá skesnúng-ur, skipti sundur Ljóti.

42. Gloppi meir en grimmt umbraust, glim í heyrir fjöllum; blódgan reir á skrokkur skaust, skvampadi' í dreyra föllum.

43. Helgi hvetur herinn þá, ad herdist betur snerra, Finnálf gétur soddan sjá, sinnid metur verra.

44. Fram í herinn hlaupa vann, hyrju verinn bisti, rænir fjeri margan mann, mækir beran hristi.

45. Vilt ad ládi búkum er, benjum grádugt svídur; vara nádi Hildur hér, herd á bádar sídur.

46. Herraud kvædi vent frá var, og vommum brædi stífa, herku skædir hvessingar, hold og klædi rífa.

47. Sóti frekur vígs um vell, vendinn skékur sára, jerdin tekur undir öll, lœda lekur bára.

48. Hildar þrár hvör hoggin gaf, holdi fár á skéllur, flektu sárum sundur af, Sóti nár því fellur.

49. Herraud' fyrst á haudur því, hneig í bista slagi, vard ad gista valnum í, vopna hristir frægi.

50. Blód í kálfa bregnum sjed, þar branda gjálfur vekja; tródst Finnálfur tyrfíng med, titradi álfa þekja.

51. Vega náir margan mann, meingid frá því hrokkur, hrædslu fá vid hrumnir þann; Hogni þá upp stokkur.

52. Málma braut ad rása réd, ruddi braut, fram vendi, örva gautur ötull med, Autranaut í hendi.

53. Geist í herinn áfram ód, óana gérir skada, undan fer ad flýa þjód, fleina grér hamada.

54. Nú Finnálfur flýa réd, fantar skjálfa hræddir, og þúsund hálfa honum med, Hnikars bjálfum klæddir.

55. Einni nádu gautar gnod, greitt frá ládi halda, upp sem brádast vinda vod, vænan þádu kalda.

56. Utá slinnar héldu haf, hrysfu sinni flæda; bófum kynnir efnid af, ødru sinni kvæda.

57. Aptur fríum Monduls mar, málma snýj til anna, eptir því ad Vikar var, vid sextíu manna.

58. Þessir hádu barra' drís, dugnad nádu geyma; fimmtíu þádu þeirra líf, þar á ládi heimar.

59. „Skyldi, frid- uppskotid var, skjóma vid hvern gledur, Vikar gridin þádi þar, þessu lidi medur.

60. Harri brögnum hefir skrekk, þorku mögnud gæddur; þessi Hogna fyllir flokk, slíkum Rögnis klæddur.

61. Vígs um haudur virdarner, valinn rauda kanna; líss Herraudur hittist þér, hjá kes daudra manna.

62. Glata sorgum garpar þá, gledi morgun lýsir, heim til borgar fluttan fá, fosnis torga hýsir.

63. Sárin mjeg þó sýnist hætt, sett af slegum branda, Svanhvít fegur gétur grætt, gildan meg Héranda.

64. Listum fjáda bauga brú, bezt afmádi trega, hefir ádur honum sú, hjúkrad dádalega.

65. Reifud gædum nistis ná; nettast græda kunni; líssins ædar lífgast á. lemsudum klæda runni.

66. Mindin skartar hennar hvar, hrindir snart af trega, lyndis art og audgrundar, yndis hjartanlega.

67. Unads blídu hýrri hjá, hafdi frídi dreingur, hennar prýdi hecma frá, hef eg tíd ei leingur.

68. Vinnanódar tals um tún, tínir ljóda gjaldi; meyan rjóda bjert á brún, brag til góda haldi.

---

## Atjánda Ríma.

### Fráſtudlad.

1. Yndrur seitján eru nú ad öllu búnar, falda sólin fagurlega, færdu þær ad yfir vega.

2. Styrdordadur á styrjöld verdur stars aldreigi, umtal gledur odda sennu, ekki jardir sylfurspennu.

---

3. Bodnar lögur burtu rann þar, bauga lína, sem ad grædi Her-ráud hýra, heidi vitur gyltra víra.

4. Veizlu stofnar stoltar þjód med stórri kæti, báran horna bragna hverjum, bellur nú á góma skérjum.

5. Kráſir ſteiktar komu fram ſem kapp=ar ſnæda, gladar kémpur gjørduſt allar, glimur undir múriun hallar.

6. Hegni þannig hjalar þá med hrok=an gamla: okkur jafu, þad allir frétti, er einginn madur á jardar hnetti.

7. Eg hefi ſeldan Andra jall og ótal ſleiti, Kolbein gyrtan bæſings bladi, budlúng deidt á víga hladi.

8. Einginn þorir minnſta mein oſs madur gjøra; Helgi ſvarar randa runni, raupyrdin ſem ſljetta kunni.

9. Megnid þitt er mørgum framar, margir vitna, frægur mátt og Hegni heita, hardur mjøg í deiſu ſkeyta.

10. Eitt er þó, og þad mér hugur þúngt um ſegir, yrdi ſvo eg aldrei kjeri, ad Finnálfur heldur ſjeri.

11. Vondur ſtendur ſluggur mér af ſtór=illmenni, ſvikull er ſá fóli fundinn, feginn vild' eg drepa hundinn.

12. Hegni ſvarar: Helgi finnur hjá ſér ædru; rædir unnar eldi bræddur,: ekki er eg fyrir neinum hræddur.

13. Rædu ſlíta rekkar þeſsa rauſnar=legir, dreingir frægu djarflundadir, druckn nú og vóru gladir.

14. Högni mælti Helga til svo heyrdi lýdur: Svanhvít mína festarfrúna, fer eg strax ad ekta núna.

15. Allvel til þess unnid hefir, ansar Helgi, grund ad njótir gullnu banda, og gætir vertir hennar landa.

16. Upphóf Ragnar bónord brátt og bidur Frídar; sæmilega svarad verdur, seimalín fær stála njerdur.

17. Bjuggrst sídan brúdar skarti bauga línur, mergs á himin mundar dagur, meyum rann upp glansa fagur.

18. Blóma prýddar brúdirnar á bekkinn feta, skartid allt vid gulli glóar, geisla strjálid dimmu sóar.

19. Veizlan góda var upphafin vyrduglega, dansad, frílad, drukkid, jetid, dormad, vakad, stadid, setid.

20. Allt þar-heimsins eptirlætid yfirgnæfir, á sérhverjum erva runni, allramest sem verda kunni.

21. Heilan mánud holdum skémti horna straumur; sæmdur gjefum sérhver madur, sínum nádi bygdum gladur.

22. Fróns Háloga Högni kjörinn hilmir verdur, fær af nógan audnum ardinn; eignadist Ragnar Kænugardinn.

23. Austur þángad sigldi svo um svædi líra, kurteislega kvedur barma, og kormtiun medur Gésnar harma.

24. Hafrenníngs á heidi beitir hesti voga, eldu sk.fl er einlægt bardi, unz í lendti Kænugardi.

25. Strax á landid stíga réd med stoltar-frúna, sér vidtoku bidur bragna, budlúng sídan verdur Raguar.

26. Ol vid Fridur arfa tvo, þad innir saga, Marbrín hétu' og Sisar sveinar, sem íþróttir lærdu beinar.

27. Fjolnis haui flegtir nú til fóstbrædranna, og Herrauds ad heilu grónum, hrannar bjóst ad sigla ljónum.

28, Kærleik medur kvaddi hjónog kóngsins nitja, sídan lét til Elfar austur, ægis skeida fáka hraustur.

29. Hrínga sólin honum fagnar hjartanlega, kallar nú sia helju heimt' hann, hafdi skjódid leingi dreymt hann.

30. Sezt ad ríki sinu þar og sinnir kyrdum, arfa þrjá med edli friuu, eignadist vid baugalínu.

31. Háreks nafu og Hrómundar þeir hlotid feingu, afreks menn ad afli stórir, en sá þridji nefutist Þórir.

32. Unga-strax á-aldri þessir erva vidir, hverjum meiri vígs á velli, víkings leysdu þjódum elli.

33. Nú skal' greina: Helgi hjalar Hegna vidur: Menelás mig fýsir finna, fylkis nidjan herku stinna.

34. Hans er systir heitin mér ad hjóna-bandi, unnid hef eg seima sólu, sverdi med í vopna gjólu.

35. Fús er eg ad fylgja þér, kvad fylkir sterki; hrumnis æda víns ad vøgnum, virdar sídan stefna brøgnum.

36. Hafid útá héldu ránar hestum tíu, síla mýrar sveim um drýgja, sudur allt í Tartaría.

37. Hafvir kusu kappar nærri kóngsins hellu, á menu Bors gékk mætur lýdur; Menelás til stándar rídur.

38. Fagnar keppum kvistur hjers med kærleik sønnum, baud til hallar heim ad drekka; hraustir þádu bodid rekkar.

39. Hafin veizla, drekkur dátt þar drótt-in fría, hunángs bára géds um gnodir, gusar inná barka vodir.

40. Þá ølteitid er sem hæst med allri gledi, ordum medur Helgi hlýu, Hel-enar Jómfrúr bad ad nýu,

41. Málld audsótt mælt er yrdi mildíngs syni, búna skarti brúdi skæra, bekkjarins til þjódir færa.

42. Alits fagur ofurnett í ellum vexti, peúdust drykkju prýdir skála, prentud stöfum jotuns mála.

43. Brátt vid þetta bordum ad féll bikars'legur, upp svo skall med ótal skvettum, aldan mjadar góms á klettum.

44. Organ trodid, symfon saung med sætum rómi, harpa' og gýgjan hljóma frínar, hér var skémtid stúlkur mínar!

45. Allskyns leikir hond um hafdir heimsins frægu; þá var gledi þegnum lánud, þetta stód í heilan mánud.

46. Menelás þad mæla vann svo meingid heyrdi: Helga géf eg mági mínum, mildíngs nafn med ríki frínu.

47. Ollu ráda einn skal hann um okkar daga, en ef ad eg lifi leingur, lád til mín ad erfdum geingur.

48. Helgi kóngur hýrum þakkar hilmis nidja, alúd med sem var til vonar, vid hann fyrst hann gjerdi svona.

49. Hálendínga hilmir fýsir heim ad sigla, virdum med á voga trenum, Vikar kappi fór med honum.

50. Bragnar kvöddu budlúng lauks og Baldvins nidja; blés í hvítar vindur vodir, vell um skérja rása gnodir.

51. Húna rakkar runnu haudur ránar meyu, nótt og dag med teigdu togi, til þess lendtu' í Munarvogi.

52. Sú er hefnin Sámsey á ad sunnanverdu; nátlángt vilja höldar hvíla, hranna jálkum tjeldin skýla.

53. Vikar segir: vaka þarf á voga byrnum, höldur hver sér hafi' á gætur, hér er bísna reymt um nætur.

54. Eyuni rædur argur þuss og ógnarlegur, heitir Sámur sonur Þjassa, sá jeg aldrei verri hjassa.

55. Födurbródir fólans Þrymur fadir Andra; mögnudum fylgir mest óblídan, myrdir fólk og jetur sídan.

56. Skrímnir þessi skotnum þykir skélfilegur, og med vegur, öllum meiri, álna tíu laungum geiri.

57. Högni mælti: hrumnir sjá mér hyggja býdur, víkjum tveir frá virda skara, vid skulum strax á eyna fara.

58. Settu' út bát og sídan réru Sáms ad eyu, bers á innu bádir spránga, bísna dimmt þó væri' ad gánga.

59. Hraustir litu hlynir stáls í hemrum loga, bjarma þessum að sér undu, einstígið í bergið fundu.

60. Vísir Högni vann upp bjargið vaskur renna, eins og sléttur vellur væri, Vikars til svo kastar snæri.

61. Upp við þetta kappinn komst í kynni jøtna, inní hellir skjótt sér flýta, fálu kund við eldinn líta.

62. Var stórskorinn vesti gaur, hékk vor á bríngu, nasaflestur, nóg kjaptvíður, nefið bæklað, hor í sýtur.

63. Tennur fjórar fants í hausi framanverðum, lángt út skaga, grennist gaman, guleygður í svartur-framan.

64. Augabrýnnar eins og hellis ógna skútar, axlar bein sem hærstu hnjúkar, hræbarðs úlpu gráa brúkar.

65. Krumlum spennir kauðinn geir af klára járni, seggjum gaut að sjónar baugum, sár-líkastur Nifsheims draugum.

66. Hrugnir stóð upp, hristi sig og hampar geiri, ætlar dreingjum eyða náðir, undan þessu hrukku báðir.

67. Hegginu var af horku fylgt og heiptar móði, gólfið steins í géllur niður, Gillis hýsi bifðist viður.

68. Gékk í Þvita geirinn lángt svo gjordist fastur, urnir hlaut ad beigja beinin, burtu vildi draga fleininn.

69. Hogni lætur hogg á ríða hrygg-inn dóla, úlpan hjóst og hold ad beini; hann brá við og sleppir fleini.

70. Stein upp þrífur strax og sendir stoltar mønnum, ógnar medur afli hrýtur, annan í fótinn Vikars brýtur.

71. Ødlíng hjó til Ymis þá med Andra-nauti, bráðeggjuðum bit úr vendi, beinsins þegar sverdið kéndi.

72. En þartil sækir Sámi ad med sára vendi, fjanda þann ad heli hýdir, happa-verk það sanna lýdir.

73. Sám á brennir báli svo en bráins dýnu, litla sá, burt flýtir ferdum, fylkir Vikar bar á herdum.

74. Ofan til strandar, útá skeidir edlíng tredur, sínum mønnum sagdi þetta; svo frá trénu líni sletta.

75. Gumnar feingu gæda-byr ad grund Háloga; Svanhvít fagnar sínum manni; svefninn læsir þánka ranni.

76. Kæran slétt ef þakkar þetta þundar blandid, blærinn glettu mædast mundi, mærin netta kvædid grundi.

# Nitjánda Ríma.

## Skothenda.

1. Litars fleyid lekt hjá mér, ljóda midin finni, skord ef treyu þóknast þér, þad nítjanda sinni.

2. Hrygdum léd er hugsan mín, heptast ljód um fleira; altaf kved eg auds vid lín, ef hún vildi heyra.

3. Þýngdin rauna þjáir oks, þrykkir sinni dáda; hvada launin hreppi loks, hamíngjan má ráda.

---

4. Fyrr nam þagna mærdin mín, mála hvíldust tólin: gled sem fagnar gilva sín, gyltra meidma sólin.

5. Veizlu gegnum bord á brá, barkans fyllir ginu; elskadi Högni audgrund þá, af ellu hjarta sínu.

6. Stygd afmádi baugs vid brú, blídu vaxa fundir; sat ad ládi sínu nú, sjóli lángar stundir.

7. Meldur gróttu mikinn á, mildíng lukkan stydur; eina dóttur innt er frá, átti Svanhvít vidur.

8. Hét Godríður bauga brú, brúðum megin-fegri, og hverri friður hrínga sú, hún var yndislegri.

9. Gleð í lyndi ástir ól, unaðs hjarta taugum, lífs var yndi silki sól, sjónar líta baugum.

10. Alits fegur augun blá, íðil rjóð í kinnum, nett að legun, bjørt á brá, bar af meyum svinnum.

11. Fljóðið rómast fegra var, framar eðrum lýði, alteins fróm af ellum bar, íþrótt, kurt og prýði.

12. Hlyn frá skíða hýrust mey, hnekkti meinum súru; var sú blíðust auðar ey, eðla blóm náttúru.

13. Spektar hærsta vísa val, vafin silki fínu, byggði glæstan sól gulls sal, súðuð linna dýnu.

14. Ekki hræðdir unda kólf, umgjørð báru falinn, verjum klæddir virðar tólf, vektuðu frúar salinn.

15. Hegni streingir heitið nú, herku gæddur sinni, að maður einginn eignist frú, utan sig að vinni.

16. Hólmi á við hrotta gell, og heggvi skyrtu fríðas; eðlings tjáðust orð gjervell, út um lendin víða.

17. Hárs með gneista hilmir lands, á hólmi mæta stinna, eingir treystast týrar brands, til Jómfrúr að vinna.

18. Fylkir þjónar firðin trú, fram svo heldur tíðum, en Vikar frónið varði nú, víkings móti lýðum.

19. Hér að sinni hvarflar frá, hauga drottins fálki; Finnálf minnist efnið á, ægis ríður jálki.

20. Úr stríði flúinn fóll sá, fór að Bjarmalandi, æru rúinn galdra grá, gyðju þar finnandi.

21. Leiðir fornar Finnálfur, fjalla gjörði vandra, hitti norn, sú Helgríður, hét, var systir Andra.

22. Herð við kallast stála sterk, stoltar kémpur hrygði; salinn fjalla dimman djerf, drillan karga bygði.

23. Flagðið slínga fólskulegt, fjanda styrknuð mætti, seið og kíngi furðu frekt, framdi það meinvætti.

24. Feiknar undir fossi var, filsni galdra mellu, álnir hundrað eru þar, ofan straumar féllu.

25. Fauk af úði fossinum, froðu hvít var sletta, straumar gnúðust ofanum, ótal gnípur kletta.

26. Jörd skalf við og hamrar há, hlúnkar foss inn þegar; heyrðu gniðinn firðar frá, fimtán mílur vegar.

27. Sögn um drýgist Finnálfs flekt, festar-vað rann gáli, gljúfrið í sér dembir dekkt, dyrgju fann að máli.

28. Brátt fulltíngis bríðjunnar, bófinn vann þar leita; en hvedru þvíngar hugarfar, honum lið að veita.

29. Tjer við vominn gyðjan grá, grimð í henni svíður; leið á koma miklu má, en, mér þó við því býður.

30. Margir fjendur móti þér, mig til hefndar kúga, ótti stendur af þeim mér, efldum happi drjúga.

31. Þó til reyna verðum vér, virðum bella ríku; skýlu eina skeinki' eg þér, skal sú valda slíku.

32. Herrauðs arfa félag fær, í flestu þér og hlýða, teigðu djarfa til mín nær, tek eg ráð þá smíða.

33. Málma lestir minn í sal, meigi ferðir géra, það hið vesta þegnum skal, og þeim fóstbræðrum vera.

34. Meinið gilda mun þeim fá, mín ef ráð á biti, því eg vildi svo tilsjá, að sérhver bana hlyti.

35. Í hellirnum hyrju víst, hafdi þrjú misseri, hér med fyrnum hamadist, hrottinn lasta beri.

36. Rúinn kurtu sterkur, stór, stráka járnum vafdi, og þadan burtu fólinn fór, fjórar skeidur hafdi.

37. Jórum gjálfurs glyggur réd, géfa leidir beztu, þá Finnálfi fylgdust med, fantar Bjarma vestu.

38. Hernad framdi hørga lid, hjassa málum nádi; kaupmenn lamdi, fólk med frid, flest af lísi hrjádi.

39. Sídan gjørist søgn um þad, seggir lyndis strídu, héldu knerum eitt sinn ad, undir Jótlands sídu.

40. Skip þar fyrir svartir sjá, sér mót lidid eggja, mínka byrinn þótti þá; þeirri gnod ad leggja.

41. Var á þessu fyli flóds, fóríngi Víkar manna, strax ad hressu badi blóds, bidur meingid anna.

42. Fyrirlidar þekktust þar, þá Finnálfur stífi, félags bidur festa svar, ad fletta Helga lífi.

43. Hegna jódi hrósa nú, hlynir framast sverda, eignast stjódid þá skalt þú, þarmed kóngur verda.

44. Fund ad skjóma fylgdu mér, fylkir Högna bonum; betur sómir þetta þér, en þjóna leingur honum.

45. Víkar tala voms til réd, vann svo hreint úr skéra: heldur skal eg hjervi med, heggvinn sundur vera.

46. Helduren þér leggja lid, loddarinn dygda tapti, minn þó grenna fáir frid, feigum mælir kjapti.

47. Finnálf' reidur bófa bad, bragna svipta fjeri; lögdu skeidum átta ad, einum Víkars kneri.

48. Illsku þjód á' allan veg, ad sér vopnud þyrpti; Hildur stód upp hrilliileg, hóstadi þá og skirpti.

49. Anda þúngum þegar blés, þegnar falla daudir; strax á lúngum leiptra trés, logar Sigtýs raudir.

50. Hafs á eingi hnígur blód, hver nam annan vega; vel og leingi Víkars þjód, vardist kallmannlega.

51. Mjög vid hradir málma sljá, ad mestu knörinn hrudu, mót ei stadid firdar fá, fontum þúngvopnudu.

52. Laufann para lætur menn, lundsur Freyu trega; ad Víkari sótti senn, sveitin allavega.

53. Hraustur vardist hvefsum geir, hlífar skýfdi snøggur; leingi bardist fleina freyr, Finnálf' til hans høggur.

54. Búkinn partar biturt stál, brakadi járns í hríngum; feggs ad hjarta Svidurs bál, sindradi blóds-eldíngum.

55. Hann vid skilinn handar svell, hjarta laungast blódi, dreyrgar þiljur fars á féll, fadmadur Loka jódi.

56. Hind af gjálfurs búkum baud, bilta' á hnísu midin; tók Finnálfur allan aud, eptir Vikar lidinn.

57. Sæ-jór vída þegnar þá, þaunguls hleyptu vega; herja sídan hvar sem má, heldur illmannlega.

58. Vunnu hrekkja verknadinn, vída hrystu lausa; en, fá þeir ekki fyrst um sinn, Fjølnis vínid dausa.

59. Herrauds víkur erfum ad, Elfar jallsins prúda; orku ríkir hvals um hlad, héldu geltum súda.

60. Stefndu' óvægir stála mót, styrjar vanir þíngum; hverjum frægri nadda njót, nefndust af víkíngum.

61. Hefdu ágætt hreysti lid, hlynir glóda tjarnar; hlýrum mætti Hlésey vid, Haddar son Vebjarnar.

62. Hardur lesti hlífarnar, hér med rómn slínga; kappi mestur kéndur var, kóngur Gandvíkínga.

63. Jetuns ættar edlíng sá, Audra sifjar limur, ódar rædt fær efni frá, afi hans var Prymur.

64. Hildi drýgja hjers med grip, hver ad edrum vegur; Haddar tíu hafdi skip, en Herra'uds nidjar fjegur.

65. Verk ei sperdu járna jags, jetnar dýnu linna; lýdir berdust leingi dags, lítid á þó vinna.

66. Mjøg ei skaddar garpa geir, greint er fáir dæi; þøkja Haddar hardir þeir, hvíld á verdur slægi.

67. Til athyglis bregnum bar, blágóms eptir heidum, nú ad siglir þegnum þar, þjód á níu skeidum.

68. Minn ei sýngur mála geir, mærdir slíngar ljóda; skordu hrínga skal ei meir, Skothendíngu bjóda.

---

# Tuttugasta Ríma.

## Attþættíngur.

1. Fyrir yndis falda lind, Fjalars synðir voða hind, glettu vindur góms frá tind, gjørir hrinda fars ómind.

2. Lasið er og leka fer, lagar kér sem átti Grér, helzt hjá mér þá bilun ber, bangsól hér því niðrun lér.

3. Enn þó frínu falda lín, fer eg sýna kvæðin mín, því mér skín við þánka skrín, þokka brín sem ljós úr Rín.

4. Æsku ljóð fyrir auðar slóð, eigi þjóðin metur góð, Kvásis blóð því storkið stóð, stoku bjóð við samðan óð.

5. Mannsaungs hjalið mitt ei skal, mey=um kala vekja tal; søgu falar fólk í sal, fljóða valið kæti gal.

---

6. Þar við stóð að laga ljóð, línspaung góð því hlýði rjóð: sigldi að þjóð þar sigtar blóð, sveit ómóð af góðu slóð.

7. Spurníng snar fram bófinn bar, biðja var um gésið svar? hvørjir þar séu hefðíng=jar, á hlunna mar með Rognis skar.

8. Haddar tjer: hvørt heitid ber, Hrómund sjer eg med Pórer, Hárek' gérir hepta sjer, hlýrarner mótstanda mér.

9. Vinna má ei virda þá, í vedra frá er frægstir stá; heiti ná þú herma frá, í þrotta þrá mér styrk þinn ljá.

10. Finnálfs hér eg heiti ber; hinn þá tjer: alþekktur er, víkíngs her med skjóma skér, þú skalt minn gérast lagsbróder.

11. Vinnum lønd med hardri hønd, hjalta vønd á fleingjum rønd, félags bønd med fálkastrønd, sljéttum vend svo kætist ønd.

12. Vermum vid og bjódum frid, bersjum nidur stála klid, í málum grida mesta lid, mitt skal ydur velkomid.

13. Ef þeir menn med tyrfings tenn, traustir kénnast okkur senn, stála sennu stórræden, strax uppbrenna þjódlenden.

14. Ykkur sætta sjest ágætt, svo afrætt sé vonzkan hætt, hér um þvætta mér er mætt, málid rætt eg fæ um bætt.

15. Haddar kvad sér þóknast það; þegar í stad á ránga glad, Finnálf' trad og firda bad, fridar ladast bodum ad.

16. Skýlu á sig bófinn brá, bragnar fá ei vid því sjá, félaga náir fridi þá, Finnálfs gráa lund ósmá.

17. Hugarfarið hlýra var, hneigt til bara friðsemdar; Finnálfs snarir félagar, funduzt þar og eins Haddar.

18. Her ósmár til ferða frár, fram svo gár með segl og rár, tuttugu' og þrjár er stjórn á stár, steddur lár um gêddu flár.

19. Héldu þeim um þoska geim; þrall ófeiminn margan beim, lét frá teimazt lukku' og seim, í landið sveima Bjarma heim.

20. Hrafnar viðis hafna lýð, hleður kvíða gleðin þýð, ról ei níðir njólu tíð, náðir blíðar þáðu' um síð.

21. Líður nóttin blíðu brott, blundur fljótt af hrundinn drótt, klæðast ótt en ræða rótt, reynum þrótt með fleinum skjótt.

22. Lauðið á nú fjanda sá, firðar sjá, þeim virðist fá; skéfsa grá með hvessíng há, hrópar þá með óp ósmá.

23. "Herrauðs kundar hevri' um stund, hjalið grundað ali lund: Helga fundnum fjelgið und, felið hann undir Heljar mund.

24. Allir þið, eg um það bið, eigið við hann branda klið, heggvið niður hrausta lið, hamíngju síðum frá hverfið.

25. Meira þó að meiða ró, mér enn bjó í þánka kró". Kjaptaði óa nábóls nó, að nefndri fló með dreki kló.

26. Að henni bráinn sókti sá, sér í frá nam eitri slá; flugust á með fyrnum þá, firðum brá er til þess sjá.

27. Skélfur undir elfa' og grund, æði stund við brædl fund, blóð úr hrundi ódast und, eggjar sundra beggja mund.

28. Gérðu hljóð en herða móð, hrynur blóðið, stynur lóð, þundar sljóð hvert undir óð, á hvar þjóðin sá þar slóð.

29. Heyrðu gnið í moldar mið, meyan riðar Bers þarvið, sukku niður, Nifl-heims lið, nú fékk hliðum frá slegið.

30. Þar að vístum vara fyrst, viður mista friðar list, góla hryst við bólið bist; braguriun slyzt ei lagaðist.

31. Að þeim lýð sem eldu skíð, átti ríða fram á víð, seglín hýða senn upp fríð, sveit um líður géððu hlíð.

32. Um rostúngs heiði hvergi beið, að hjörva neyðum Finnálf' skreið, sverða meiðum sagði leið, svara greiður þar á skeið.

33. Gnoðir sveri boðinn ber, ball á knerum fallinn ver; Tartara sjer nú svart-ur her, sáð handtérað láð fyrer.

34. Heim skip sá að hefnum gá, hauðrið á lið geingur þá, tjeldum slá með linna lá, lýðir sjá þar byrtu frá.

35. Finnálf tjer vid hraustan her,: herjum vér nú brynjader, landid hér og linna skér, Aeggja ber oss allt under.

36. Hilmir lands í hrotta dans, heljar vans til veitum sanns; ei vid stansa brjótar brands, bodum ansa gjerdu hans.

37. Bragna hvør þreif hvassan hjer, hvetja fer ad Sigthýs ver; búum gjörir glatast sjer, grimdar er þá flýgur snor.

38. Brendu þar um bygdirnar, blossi snar og járn geisar, rœntu hvar sem bósa ad bar, belvunar med gjerdirnar.

39. Undan hrekkur eldin klekk, odda rekkurs jels frá mokk, ad gilva stekk og gjördi þekk, ad gydjan Hlekk þá misti frekk.

40. Hernad tjá þeir hilmir frá, Helgi þá um dýra lá, hermenn fá sex hundrud má, herinn sá bar járnin blá.

41. Hirdin vendud hjálma grend, hauka strond fær ell um þend, af ymsum londum stáls vid stend, stýfdu rond med vaskri hend.

42. Kappar tveir med gyltan geir, gorpsum meiri voru þeir, Ingifreyr á lausa leir, lætur dreyra þjód svo deyr.

43. Annar drýgir darra gný, dugnad fríau sýndi því, ljósi dýa leiptrar í, af Lúmbardía Benóní.

44. Helgi reid med herinn leid, hófa meidar runnu skeid, Menelás greidur graud ei beid, geirs ad neyd bar únda seid.

45. Mági frínum fylgdi sín, fleina tínir list ei dvín; gédug Rínar loga lín, leingi píniſt sorg Elín.

46. Hennar vóð í hyggju slód, harmar tródan silkis gód, mundi ljótur missa blód, milding fródur vígs á slód.

47. Þóttist vita falda sit, feingi hann biturt andar slit, brand þá litar blóds med glit, burt sig flytur, hermir rit.

48. Eitt á mar bjó audgrund far, á fékk þar menn trúnadar, hanin snarast vodin var, vishund bar til Elfeyar.

49. Á land upp rann sú listum ann, línspaung fann og hefdíngjann, Herraud þann sem hreysti kann, hermdi sann um bardagann.

50. Hvart mér hann ekki tjer, innist hér hvar komid er, ofseiner því verdum vér, þó veljum her þann randir skér.

51. Forleg ské, það svo eg sje, seims línde við jall sagde; að Henni hné þar yndæle, með ágæte hjá ríkmenne.

52. Parað sneiði Skilvíngs skeið, skekk sem reiðar spjellum kveið: Tartara neyðar hjers að heið, Helgi reið og þjóð um leið.

53 Meiðum pella ferð ei féll, fleins í spella grimman smell; Hlírnisvellir hét þar svell, horna géllur raustin hvéll.

54. Beggja þjóð af mégnum móð, mættist, Lóðins stundi fljóð; lúðurs hljóða hornin góð, hvør fram tróð að missa blóð.

55 Helga drýgist her á ný, hvergi svíun rómu í, einn um tíu geirs við gný, gotnar fríu telðust því.

56. Mergum velur Hildur hel, himininn felur nadda jel; hrafn sig elur, álfa hvel, og undir melar sjálfa tel.

57. Rennast hvetum fleina fet, frjáls ei gletun stáls í et; markast jetuns jarka flet, járna rotuð sárna get.

58. Framá kvøld með skjóma og skjøld, skékur eldin vígs áhøld; glatast fjøldi en grímen køld, gaf í tjøldum náða vøld.

59. Gagur strídur-fragur býdur, blund ad skrídur stundar þýdur, beggja lýdur, seggjum svídur, sem bengrídur lemstrin snídur.

60. Attþætting í stans eg sting, stefja glíngurs margþvætting; eingin sýngur undir slíng, artug hrínga gésu um kríng.

# Tuttugasta og fyrsta Ríma.

Aldýrt Stikluvik.

1. Drottins hánga bjór eg ber, bord um gánga minnis, birlist rángur rekkum hér, rein ei spánga þakkar mér.

2. Dýrt ei sel þad meta má, mundar hélu stordin, ef eingin, vel mér þykir þá, þund-ar pelaun girnist á.

3. Leid mér þykir þökkin mín, þó nær vikin réttu; dugir ei mikid, drós tjer frín, danst og svikid Bodnar vín.

4. Einsog kannid meida mig, 'mundi' eg hraun á detta, þessi laun óþægilig, þad er raun ad vanda sig.

5. Sízt skal bjóða mannsaungs mál, móins glóða hlíði; hljómur ljóða hressir sál, hugarins móða þrykkir prjál.

6. Bragar smíði því fram þyl, þúngu stríði varna, og fyrir þýða bauga bil, bezta prýðir heyrðu til.

---

7. Aður neldurs mistl móð, mærð á kvöldum ala, sem í tjöldum sefur þjóð, sú bar skjöld um járna slóð.

8. Strax sem dagar slíſið líð, stála jag vill hefja, og með slagar aungva bíð, á benlagar sádlandið.

9. Helgi týin hefir góð, hesti því reið bezta; þessi nýan magnar móð, marinn frí af Spanskri lóð.

10. A hofudið sleypti hjálminum, herðu leiptri gyrtur; í brynju hleypti búkinum, brandinn greipti mundunum.

11. Hestinn fríða hetjan snör, höggur síðan sporum, svo fram ríður ödlíng ör, aungvu kvíðir lífað fjör.

12. Helgi nýtum hesti þar, hleypti í ríta meiðsli; mest af ítum orku bar, en fannhvítur jórinn var.

13. Skeglar jeli skjótt að brá, skjálfa hvel og grundir; margur helið seggur sá, sumum gélur skjóminn á.

14. Hvörutveggi meingið má, málma hreggið þola, blossi' um eggjar blikar þá, blóðgum Tveggja leiptrum á.

15. Fram Hárekur sækir svo, sára skékur ljáinn, í heggi frekur fimm og tvo, flesta hrekur, bragna vo.

16. Vígs um stræti vedur því, virðum lætur svíða; hjers í þrætu hörðum gný, honum mætir Benóní.

17. Saman renna megni með, makir spenna báðir; Hárek kénnist hreysti léð, hinn í tennur kljúfa réð.

18. Eins Hrómundur brandinn bar, blóðgar mundir hafði, vígs að fundum vednr snar, viður stundi flet Gendlar.

19. Mátti lýður megnis-ei, móti stríða kémpu, jó að hýðir málmþings mey, móti ríður Ingifrey.

20. Mættust harðir þegnar þeir, þykkva barða klusu; blóði varð að litast leir, laut til jarðar Ingifreyr.

21. Harðan gnúðu hrotta klíð, hermenn údar vagna, áttu lúðir aungvan frið, undan flúði borgar lið.

22. Þórir teíninn benja bar, bregnum steinur veitti; sóknin steina svellust var, súngu' á beinum skefnúngar.

23. Með Þórer í málma klíð, mækinn ber Finnálfur; hópum fer að hníga lið, Helgi sjer á mannfallið.

24. Margur sár við sverða þrá, sízt upp stár, en hnígur, foldu nárinn allteins á, og þá ljárinn fellir strá.

25. Eggja jór að raska ró, randar stjóra sína, verka stór um mannslags mó, móti Þórir hleypti jó.

26. Hendum báðum heggvande, Helgi fjáður lista, svarðar láðið sundrade, seima ráður dauður hné.

27. Eipast herinn vígið við, vopnin bera' að Helga, drepa gérir lofdúng lið, lífið ver með hreysti sið.

28. Hart fram rásar Haddur snar, hestur másar sveitti, Meneláfi brand að bar, blóðgum nás á velli þar.

29. Báðir álma brjótar þar, branda jálma létu, víga málmi með Haddar, moladi hjálminn kóngs sonar.

30. Svo var harður ægir að, eggin varð að bila, hauður svarðar þó við það, þrótti skarðast daudrotað.

31. Vonzku raudur hljóda hás, Haddur naudum faguar, en fellur haudur nú á nás, nidur daudur Menelás.

32. Hver um annan hnígur þá, Helga manna látinn; Tyrfíngs auna týra slá, tiggi vann med benja ljá.

33. Fylkir módur fárid lífs, fjelda þjódum veitti; einn af rjódum unda knífs, eptir stód á velli kífs.

34. Odlíng frækiun Fjelnis tjerg, af fólki sprækn risti; bregdur mækir eldin erg, ad honum sækja hundrud merg.

35. Finnálf lítur lofdúng þá, lista nýtur sagdi: ef þér bítur eggin blá, ad mér ríta ber þú ljá.

36. Hryssu fundur komdu' í stad, kjalars tundur reyna, svika hundur, heyrdu þad, hrotta fundum mælist ad.

37. Kann inn vesti veraldar, vedrid hvestu hlífa, ei þig brestur velvunar, bruggid vest og skammirnar.

38. Allan þá um ills helfíng, espast náir kaudi; ansar: sláum ad honum hring, undra má sú hetja slíng.

39. Hølda mana hefir þor, hiedir grana klifsja, er þad bani allra vor, ef hann vana geingur spor.

40. Að honum síðan beigja baug, beimar stríði kunnir; hann um lýða hrínginn flaug, hrotta sníður margan draug.

41. Móður er en ei særður, undra ber svo hreysti; yfir herinn út stekkur, orva grér þó brynjaður.

42. Hrópa gérir aptur á, óðan her og mælti: ykkur ber í brauða þrá, betur hér að höggva og slá.

43. Þið, sem níðið frá mér fjer, framar stríða megið, eptir bíð eg búinn hér, bana tíð er ætluð mér.

44. Jeg í elli alla ber, illa kvellíng rauna; nú að velli falla fer, fleinar gélla snjallir hér.

45. Orustur fordum hef eg háð, og héraf orðið frægur, veiga skorðu vann og láð, vergum þorði géfa bráð.

46. Sældar skérðist tíðin trú, tapast ferðir gleði, borgir, gérðar, fé og frú, fagra verð eg láta nú.

47. Þeigi grunur þessi dvín, þar við uni' eg líka: Högni mun og hefna mín, heiptar bruna meður sín.

48. Okkar fundin trygða taug, traudla sundur slitnar; mig hann undir hústar haug, hefum bundið mæli baug.

49. Minsta sérdist minn hugur, mig þó sverdin kljúfi, erva njerdur alfrægur, eittsinn verdur deya hvur.

50. Vini klækja budlúng bad, betur rækja snerru; herinn sækir enuþá ad, ulli mækja nú í stad.

51. Kappa slíngum farga frid, Finnálfs sýngur hretti, oddurinn stýngur kóngsins kvid, kísmæringur bregdur vid.

52. Yfir herinn sikling senn, sidan gérir stekkva; undra fer þad marga menn, mest hvad er hann røskur enn.

53. Einn hét Beinir bófum hjá, bitrum fleini lagdi; gilva steinu gjørdi sá, gildum beini stendur á.

54. Kaudinn róstu vanur var, vopna gjóstinn herda; oddurinn brjóstid edlings skar, upp ad hósti ben markar.

55. Vísir lísid verja kaus, vendinn hlífa reiddi, Beinis klýfur hjálm og haus, hrikinn stífur dreyra gaus.

56. Lísid dólann þegar þraut, þar á bóli Gendlar; mælti sjóli: lágt sá laut, lids ei fólinn mergdar naut.

57. Sóktu nadda njótar fram, nislúng stadda vildu, branti Haddar heggva nam, helju-stadddan sardi gram.

58. Sverd ad rídur siklínge, sundrar fríða skjoldinn, vopnið stríða hljóp á hné, hend af snídur konúnge.

59. Finnálf hinstu herti neyð, hilmir sinst aflvana; fantur kynstra sleins af meið, fótar vinstra kálfann sneið.

60. Orkan þá með ellu fer, edlíng frá um síðir; iðrin láu úti hér, ofan á náinn hallar sér.

61. Vopna leiki vann í hrað, en vígs nábleikur deyði — gjerfugleiki' en gæfa' annað, gumnar veikir sanna það.

62. Vígs áhøldum balið ber, byrjast koold svo gríma, í sínum tjøldum seggur hver, sigri teldum hrósa fer.

63. Str.r um morgunstundar bil, stórt ei sorgar lýður; linna torg í veittist vil, víkur borgar herinn til.

64. Mergum nædi hýrt frá hné, hermenn brædilega, ræntu bædi fólki' og fé, fram að grædi berande.

65. Audur skordast undir þil, enn á borða vergum; vanir morði hvals um hil, héldu Norðurlanda til.

66. Fóstur: vildu: frónið sjá, sólar trylldu' og brædur, mjeg að Hildi þjóðir þjá, þeir herskyldi fóru þá.

67. Sagan baud mér segja' það, sagna trandum manni: hjóst Herraudur heimanað, her óblaudum safnar að.

68. Hugsar jallinn hraustur þar, Helgi fallinn væri, beint á hjalli benhríðar, bistur kall í sinni var.

69. Mæring sveið það feikna fár, fal þó neyðar harma, haudur reiður hélt á knár, hafdi skeiður tvennar þrjár.

70. Vegur lángur lá fyrir, landið spránga keilu; oldur strángar albúnir, ódu ránga jórarnir.

71. Ferdin greidast geingur þar, gotar freida siglu, saung í reiða, svignar rá, sílis heidar trodum á.

72. Freyar boga firtust grand, frón Háloga þektu, festa tog við sævar sand, seggir og þar génga' á land.

73. Settu búdir sínar á, svidris brúdi græna, hrygdum lúdur Herraud' þá, hjartaprúdur gjerdi tjá:

74. Hogna finna fyrst eg vil, fromud svinnan láda, hlýra minn ei harma dyl; hallarinnar gékk hann til.

75. Hefir ærið hryggva lund, hlidum fær-uppsleigið; þegnar væran þádu blund, það var nær um Ottu-stund.

76. Vøku rekka fann með frið, fíla bekkja mynni; kappinn þekkur kannaſt við, konúngs gékk í herbergið.

77. Alla tíma móðum mér, mælſku víman hamlar; halla ſkímu, ſtjóðið! fer, fallin ríma bjóðiſt þér.

---

# Tuttugaſta og ønnur Ríma.

## Odýr Stafhenda.

1. Heyrðu raſtar gloſsa gná, glødum meðan tíma þá, tuttugaſta' og ønnur er, Andra ríma kveðin hér.

2. Vildi' eg þægan velja brag, vankunnáttu minni' í hag, einginn maður er eg til, ódar ſýna vandað ſpil.

3. Aldrei fyrr til bøgu bjó, bragarhátt með ſlíkan þó, heiðri vafin hrínga brú, hjálpaðu mér að ſkjælda nú.

4. Því ekkert géfur Odinn mér, ódreyrs vín ſem gagn að er, kvøl er að leita hans armóð í, er hann fjandi ſár á því.

5. Naudsyn mína nýtir sér, nógu dýrt þad selur mér; en mig vantar vitid ad, vid hann kaupa' og svona er þad.

6. Ekki skal þó um þad fást, á eigin spítur sínar skást, spila muu í búnad brags, byrjast líka ríman strax.

---

7. Naustud snekkja Níráds var, neggjum skordud fróns þagnar, sem Herraudur gékk í herbergid, heilsa bródur sínum réd.

8. Drottníng hvílir ermum á, edlíngi med ljósa brá; jallinn heilsar henni med; hún því blídast taka réd.

9. Kvedju tekur Herrauds hér, Hegni vel og þannig tjer: hvad er í frétt-um hlýri minn, ad híngad geingur óbodinn.

10. En Herraudur aptur kvad: ekki' er gaman fregnum ad:, Helgi féll í fleina þrá, Finnálfs undir vopnin blá.

11. Sá hefir vélad sonu mín, svika þræll med brogdin sín, minn þad kvelur minnis rann, medan dreg eg lífs andann.

12. Fylgja honum hlýrar þrír, hernad þeirra meingid stýr; ó! ad mínir arfarnir, illum væru fráskildir.

13. Sandvíkínga gilvi stór, gerpum fylgir síls um kór, Haddar nefndur hriki snar, hann er sonur Vebjarnar.

14. Hegni, skaltú herklædast, hefna skulum geisi fast, eptir leita þrælum þeim, þegar í stad um vídan geim.

15. Hegni vid þad hamadist, Hildar þrísur klædin bezt, á hofudid steypir hjálmi því, hrausta brynju klæddist í.

16. Andra-grípa nádi-naut, nú ad svífur ennur þraut: datt úr bali brandur þar, brjóstid snerti drottníngar.

17. Poldi sárid fegur frú, fadmar klædin ad sér nú, ekkert bera lét á ljós, linna vallar prýdis rós.

18. Hafdi skorid brýngu bein, benja ljár, en unda mein, í þad fyrsta átti frid, illa sídan hafdist vid.

19. Hegni strondum ædir ad, ekki vissi grand um þad, hvert hann særdi seims hlídi, sveid í heiptin doglíngi.

20. Búdum svipti þegar þjód, þar um gnodir laga flód, Hegna konúngs inndrótt er, út sig búa' og medfylger.

21. Trenur kadla tíu þar, tóku skrið á söltum mar; Hogni býdur hækka vod, Herraudur var á sömu gnod.

22. Öldu þýngist bláa brún, blekkum siglu veltir hún, ránar jardir ód fleigt um, undir fegru reidtýgjum.

23. Látum sveima þegna þá, þaunguls heima trodum á, mitt því Dvalins súid far, slytja skal til drottníngar.

24. Legst í rekkju seimgrund sár, sorga skúrin vætir brár; kvenna blóminn lífid lét, landsins meingi frúna grét.

25. Vísis dóttir vildi frín, væri grafin módir sín, ádur en kæmi hilmir heim, hertygjadur um líra geim.

26. Líkid pelli vafid var, vyrduglega drottníngar, gérdur haugur vænn um vell, vidlíka sem konúngs höll.

27. Dána þar inn drottníngu, dreingir medur lotníngu, báru; ángur eymdi lid, allir grétu kvennvalid.

28. Drottníngar í háfan haug, höldar mörgum fleigdu baug, gulls af fegru gérsemum, glitradi hans ad innvidum.

29. Uppá beztan blóma plag, bjart var þar eins nótt og dag, um framlidins leguból, lýsti ránar heima sól.

30. Gjert af þakid grjóti' og mold, geymdi deglíngs innu hold; þegnar hurdu læsta lás, létu fyrir býli nás.

31. Grindur járni gjerdar af, gyrtu hvern um dyra staf, upp og nidur eins um þvert, allt var þad af stáli gért.

32. Hagastir af landsins lýd, lundar stáls þad gjerdu smíd; einginn komast ýta vann, inní dáins hvílu rann.

33. Einsog gilva dóttir dýr, dreingjum fyrir lagdi skír, hrygdum lúd þó vera vann, var tilbúin ná=stofan.

34. J fráveru Fodur síns, fegurst allra grundin líns, hafdi rádin yfir oll, odlíngs drakk í vænni holl.

35. Minn ad hugur svifar sér, sem þeir brædur hardgjorver, aldrei ferdar áttu hlé, eptir leita Finnálfe.

36. Hefdu fregnir feingid af, ad fólinn sigldi' í vesturhaf, ókafir ad ipta brand, undir héldu Bjarmaland.

37. Hadd og Finnálf fundu þar, fjórtán.skipum þjódá var, hardri gyrdir Hildar reim, Herrauds synir fylgdu þeim.

38. Herraudur mælti Hogna vid: heya skal eg vopna klid, erfum sjálfur móti mín, mér þó alburs hnekkji pín.

39. Líkar rædan fjóla sú, sig til snerru tígja nú, sjálfur vidur Hadd og hinn, hildur reisi hel-þrúnginn.

40. Spurt ad sekum valla var, vopnin þrífur sérhvor þar; ordum jukust eigi vid, odda skall á hretvidrid.

41. Var skot-hrídin hrædileg, heldar renna bana veg; blódid hrundi ædum úr, eins og þéttast fellur skúr.

42. Allan hylur Austra fald, ógnar nadda skaf-kafald, blódi litast legurinn, lagdi mekk á himininn.

43. Hegni mælir: orkast ei, á ad vinna þessi grey, heggorustu hefja skal, og hrysti bitran sára fal.

44. Sýnist mér ell sveitin blaud, saman teingja skipin baud, gilva bod hjá gerpum stód, gnodir saman leggur þjód.

45. Heggum nádu saman svo, síklíng Hegni margan vo, var einhamur ekki þá, ýta nidur ad heggva' og slá.

46. Ad honum berserks gángur gár, gaus af vitum reykur blár, frodu nidur fellandi, Finnálfs lidid hrellandi.

47. Hardan áttu hjerva daus, Herraudur og synir haus, eru þeim lagin óskepin, ekki þekktu fodur sinn.

48. Ognarleg var hma þá, ótal fellur lidid frá, saman skeidur hneppir her, hlýrar berdust ákafer.

49. Herrauds knorinn hljóp uppá, Hárekur og sverdi brá, stafnbúanum haus af hjó, hitt sig undan lidid dró.

50. Ottast heljar mæla mann, meidslin kvelja sérhvern þann, sem til nádi hann med hjer, Herraudur gádi' ad kappans fer.

51. Móti hleypur Háreki; hjálma þór hinn aldradi, svo til annars heggur hver, hreysti gjörnu fedgarner.

52. Hárek tveimur hondum ad, hjalta reidir bitran nad, fødur sínum, hopar hann, hegeid kom á búklarann.

53. Honum frá sér Herraudur, hardur skaut, en fetbreidur, hrøkk í sundur hjaltid um, hart var kast á skyldinum.

54. Undir Hárek hleypur þá, Herraudur og kallar á, meingid til ad hendla hann, hál ef gæti fjetradan.

55. Hann á rédust heldar tveir, honum med en áttu þeir, ærid vinna ádur hann, yfir gátu bugadan.

56. Hart fram sækir Hrómundur, hrædilega mannskædur, hardsinnadur Herrauds nú, hraud med øllu skipin þrjú,

57. Föður síns leggur fram að skeið, fólkið eggjar þá um leið, heyrði fallið Háreks um, heiptin svall í þánkanum.

58. Jallsins lýður varðist vel, vanur beita sára þjel, sóktu hinir ærugt að, ýmsir fundu banastað.

59. Hilmir greinir Högna frá, Haddars skipið rann uppá, ótal vegur ýta þar, Andrauautinn blóðlitar.

60. Hömuðum undan þeingli þar, þjóðin hrekkur allstaðar; Haddar móti honum ser, hrotta kvíðum vanur er.

61. Aldrei skal eg yrkja brag, undir valinn þetta lag; burtu stríkur hróður hér, hvornig líkar sprundið þér?

---

# Tuttugasta og þriðja Ríma.

## Frumhenda.

1. Sansa túnið aptur á, Arnar taði klíni, fagurbúnu falda gná, frá er það eg sýni.

2. Viðris feinginn höndla hér, hugann þverrar lúna, opt hefir geingið illa mér, en aldrei verr en núna.

3. Margt vill bjóða mótlæting, mærdar spaug rírandi; Andra ljóðin samt eg sýng, svona' eru þau látandi.

4. Endurþvættkan loddu leir, lýdir aptur heyri, hardir mættust tiggjar tveir, trellum kraptameiri.

5. Haddur frækinn brynju ber, branda hreggs til képpti, kaudans mækir odd af er, álnir sex ad hepti.

6. Tígjum fínu vafinn var, vatna báli dreiginn; fyrir sínu brjósti bar, barda stáli sleginn.

7. Skjoldúnganna gjerdi géd, grimdar rádum slíka, hvor til annars heggva réd, hemudust bádir líka.

8. Hvor fram tredur 'óstjórn í, espast voda-fundir, bísnum medur bærdust því, brakadi gnodin undir.

9. Bærdust tryldir bers um víf, benjar opnast tóku; beigludu skyldi, brutu hlíf, blódug vopnin skóku.

10. Mækir þúngur gnýsti, gall, geptu verar skálma, saud af túngu frodufall, fleinar berir jálma.

11. Kelid árnar hjalt-ormur, hegna snótar vinum, briddan járni barda hvur, var á móti hinum.

12. Stál vid kveikir brynju blá, buldu flaktir hjálmar; gaus af reykur gerpum þá, glœmrudu naktir málmar.

13. Meidsla kéndi garpa gérd, grimdar treysta dugi; klofnudu rendur, súngu sverd, sindrudu gneista flugi.

14. Herku strídur heptist þó, hrottans ydju fundur, því umsídir Hegni hjó, Hadd í midju sundur.

15. Lét Finnálfur fylkir ad, flein úr slídrum darka, snídur kálfann biturt blad, budlúngs nidur á jarka.

16. Snart á hœli Hegni suÿst, heggs til geirinn knúdi, hend af þrœli burtu bízt, benin dreyra spúdi.

17. Þegar kéndi sveinir sár, sitt er hreifa meiddi, annari hendi kaudinn knár, kylfu þreif og reiddi.

18. Hildigrím á hardan sló, hamíngjulausi klunni; yfir svíma degling dró, dreyrinn gaus af munni.

19. Aptur reidir Andranaut, ædlíng súta gróinn, Finnálfs sneidir háls en braut, hefudid útá sjóinn.

20 Finnálfs meingi sízt vill sér, sverda fundi drýgja, skip úr teingslum heggúr hver, hradast undan flýa.

21. Þjód sé gripin budlúng baud, baua strík'ng kanna; láu skipin eptir aud, átta víkíngauna.

22. Jalls son veldur feigdar fer, firda drýgist Hildi, einum heldur eptir knør, ekki flýa vildi.

23. Hart fram sækir hardeflódur, hann ad sínum fødur, ítur frækinn umkrísur, eggja gínu ledur.

24. Bardist slíngur medur mód, marg- ur hreppist vodi; Hrómund kríngum kvíar þjód, kallsins eptir bodi.

25. Dísur gérdi Hrómundur, dunur heyrdi vída; hart þó berdist Hrómund- ur, hann var reyrdur sídan.

26. Herraudur heima bad um sinn, bendum til ad hlídri, á ad geimast arfi minn, undir þiljum nidri.

27. Stilltist róma, sárin sín, seggir klædum bundu, sídan ljóma dagsins dvín, dreingir nædi fundu.

28. Hegui djarfur hlýra bad, hels í drísa pínu, þá Herrauds arfar hann vísi ad, héldu lífi sínu.

29. Jallinn neyð í brjósti ber, bródur inuti sínum: stilltu reidi Hogni hér, hefnum sinntu mínum.

30. Ef nokkur vegur næst um sinn, nefndar kvalir skérda; ofsalegur ansar hinn: aldrei skal þad verda.

31. Hafa þeir alid edlíng grand, ei þarf vonast minna: lauga skal eg bitran brand, í blódi sona þinna.

32. Hinn þá merkur hermdi þad, hilmir brandi venum, nídíngs verkid vest er ad, vega bandíngjenum.

33. Tiggi geisar til og frá, tals vid bætir dádum: máttu leysa þræla þá, þeim skal eg mæta bádum.

34. Birti jallinn: bísn er gróf, brædur sterka vinna, kantu valla Hogni hóf, heiptarverka þinna.

35. Sízt áleidis geingu grid, geira brá vid þundi; gilva reidum góðmennid, geingur frá og stundi.

36. Hrómund leysa bragna bad, bensja vond og færa; þegar geisa þángad ad, þegn úr bendum hræra.

37. Spratt á fætur geira grér, grípur klædin Hildar, heilsa mætum fedur fer, fremur rædu snildar.

38. Mér fosláttu, mælti hann, minnið dofa hrekur, hrottaslátt þann heþa vann, hjálminn ofan tekur.

39. Öllu nornir níðverkum, neyd vard okkar hlýra, en viðspornar óskopum, ekki nokkur sýra.

40. Jallinn svarar: vísir við, vopni bláu neyta, áttu, varið er svo: lið, ykkur má ei veita.

41. Hogni frekur mækir með, minst þér búi kvída; hafirdu þrek og hreysti géð, hertu þig nú að stríða!

42. Sikling kallar, heyrdi hinn, hárs að jeli stránga, hingað lalla þrællinn þinn, þú skalt helið fánga.

43. Sékk Hrómundur Hogna mót, hardir gjorast fundir; vopna lundar hopa' ei hót, hrystist knörinn undir.

44. Leingi gjordu þegnar þar, þundar skæða vedur, sleinar berdu sinnsleysar, feiknar ædi medur.

45. Brakur Regnis britjar hvur, blódsins elfur migu, óttast Hogna Herraudur, heggin hrædiligu.

46. Sérhvør reista sverdid bar, sér í daudann voga, bjartir gneistar þutu' af þar, þundar raudum loga.

47. Hilmis undrar heggum á, hlífar nádu vana, sínum kundi þeinkti þá, þegar rádinn bana.

48. Esldur midur málms vid jel, mæk-ir fast ad spanna, Herrauds nidur vard-ist vel, vopudjarfastur manna.

49. Leingi fríast létu þeir, lausa sjá á hrídir, elli-hníginn mæddist meir, mild-íng þá um sídir.

50. Sveif ad mædin siklínge, sverdi sleingir búna, sídan badi hraut á hwé, honum var geingid núna.

51. Roskur sídan ræsir tjer, rádin þau á lagdi: hofudid snída máttu' af mér, mad-ur á augabragdi.

52. Frægdin slota ser gjervoll, framar stál ad beigja, mín er þrotin orkan ell, er því mál ad deya.

53. Stór ad hjaldri verk eg vann, og víst ei undan flýdi, hef þó aldrei meiri mann, mér í fundid strídi.

54. Ellin hueckir, folnar fjer, fatast gæfan haga; smánar ekki fór eg fer, fyrr um mína daga.

55. Ségnir surdu fremdin þín, frægðir ber til víga, fyrst það urdu forleg mín, fyrir þér að hníga.

56. Bjóda sættir budlúng þér, bezta ráð má verda; skyrjold hætta brædrum ber, brjótur tjádi sverda.

57. Hilmir tjádi: send þér fé, sæmd af falli mínu; máttu ráda fróni, fé, og fíngra mjálla línu.

58. Hvor að brádum sverda sveim, seggur fljótt mig inni, hafdi' eg ádur heitid þeim, henni dóttur minni.

59. Þrótt ad farinn eg fyrst er, ord um haldist píku; hegg þú snarast haus af mér, hefirdu vald á slíku.

60. Við skulum kala kvittir víg, kættir vina bragdi, vega skal ei skammar víg, skjóma hlynur sagdi.

61. Menn um nauda þeingill þá, þrykki stifu rádi, gat Herraudur unnid á, ad hann lífid þádi.

62. Jallinn kættist, feingu frid, frægir stála njótar, hé næst sættust Hogna vid; hróþrar máliu þrjóta.

63. Andra bragur þrítur þann, þreyta réd um tíma, vandra gagúr hlítur hann, heita kvedin ríma.

---

## Tuttugasta og fjórda Ríma.

### Ferskeitt.

1. Tuttugasta' og fjórda fer, firdum bragi rita, mín ellefta mærd þad er, meingid skal þad vita.

2. Á þeim mindin mærdar sljó, mín er hrínga gérdur! en tvær framar á eg þó, ef ad skodad verdur.

3. Þeim vid bæta rúnum réd, rír í kræda standi, var mér sagan send og léd, sudur af vestur-landi.

4. Þrettán gamlar þekkjast enn, þrauta ráng-skrífadar, hinar flestir meina menn, munt forlóradar.

5. Sú er gømul søgn eg skil, sem til málsins færi, ad efnid søgu teiknar til, tuttugu' og fjórar væri.

6. Fremstar þóttu' í fyrndinne, flestra søgu rita, en af hvørjum þær ortar sé, ekki kann eg vita.

7. Undir valdar einfalt lag, eingra skilníngs vasi; nokkrir halda Bergsteinn brag, Blindi kvedid hafi.

8. Ad øllu mér er ókéndur, um hann Svendur kvedur; þann og telur Bergþórs bur, beztu skáldum medur.

9. Hér frá skíra þarf ei þjód, þess og einginn bidur, aptur vik eg orda ljód, og Øndrur kveda nidur.

---

10. Austra snekkjan átti bid, orda streingir hrukku, þar hlýrar sættust hilmir vid, høldar gladir drukku.

11. Hérnæst viku haudrl frá, heldur hjórin fría, súda dýrum sídan á, sudur í Tartaría.

12. Altaf feingu bezta byr, bragnar hermannligu, af þeim segir ekki fyr, en á frónid sligu.

13. Sídan tjeldin settu frid, sín vid ránar heidi; Hogni spurdi heima-lýd, Helga grams ad leidi.

14. Lidinn vil eg sikling sjó, sáru spennt-ur vyli; dróttin vísar degling þá, dána kóngs ad býli.

15. Likid yfir háan haug, herinn varp ágætur, morgum þángad bjertum baug, budlúng kasta lætur.

16. Týrar skjóma tjeldum ad, trádu fjergín hradir, allir sídan eptir þad, erfi drukku gladir.

17. Heim á leid svo hrada sér, høldar vígs-øflugu, leingi ránga refirnir, rostúngs urdir smugu.

18. Rendi sérhver súda hind, svædi bjarnar voga; eldin sigldi ójka-vind, undir frón Háloga.

19. Høfnum dýrin neglu ná, nádi fest- um streingur; herinn stígur haudrid á, heim til borgar geingur.

20. Hilmir fréttir frekast þín, fyrir hyggju brunninn, ad höfud dúka sólin sín, sé til vidar runnin.

21. Haglid reykar himni frá, hraut af sjónar baugi; dróttin vísar dögling þá, drottníngar ad haugi.

22. Og svo þrýstur Andranaut, undan lýdir horfa, hardur sídan haugsins braut, hurd af stáli gjerva.

23. Fagurbúna gulls med glit, glansadi dáins kvnni, sat á stóli falda fit, framlidin þar inni.

24. Hegni mælir: hérna skal, hjá þér vera daudur, þú! mín kæra! vísa val, vart um leg og haudur.

25. Af þér gjervalt ángur dvín, eg því fagna bana, hugar eina hægd er mín, hjá þér andarvana.

26. Vísna sá var tiggi trúr, tepun fá hann lysti; kaldan náinn frídrar frúr, fadmadi þá og kysti.

27. Hédan lífs eg fer ei fet, frá þér fi'ki hlídi, þig eg ollu meira met, mestu heimsins prýdi.

28. Hreysti verkum ødlings á, allar þjódir fyrnar, feigdar falsins færdi þá, feikna bjarg í dyrnar.

29. Allan birgir inngánz hann, undrun var þad meiri: máttu' ei bæra þvita þann, þrettán manns eda fleiri.

30. Aldrei gékk úr hofi hræs, hilmir stórkostlegi; út þar loksins anda blæs, á fimtánda degi.

31. Hogna konúngs mærdin mín, minnist framar eigi; en Herraudur med sonum sín, sat ad staupa leigi.

32. Hilmis dóttur mæta mey, menn á flestir stordu, prýddi bekkinn audar ey, eins og sunna jordu.

33. Gjørvell reifud gulls med flúr, glansadi hvirfils fidur; bad Hrómundur hrínga brúr, Herraudur málid fridur.

34. Var þar aukin veizlan þjód, veitt af allri prýdi, Hrómundur festi hýrast fljód, Hogna jód Godrídi.

35. Ad honum þarna heppnin hvé, Herraud kall þad gledur, edladist nifl-úngs nafn og fé, nettu sprundi medur.

36. Af honum konúngs ættirnar, eign-udust þetta haudur; hétu synir Hrómund-ar, Hegni, Bjorn, Grauraudur.

37. Laung er søgu af lifrum þrem, lausa hver vid tamur; en dóttir hara Svan-hvít sem, Sifar átti gramur.

38. Segur grelna' hans frægdum frá, fleina jel ei spardi, arfi Ragnars edlíng sá, austan úr Kænugardi.

39. Herraudur med lifdi list, linna gaddur sýki, ellimódur andadist, Elfar heim í ríki.

40. Margir grétu þelngil þann, þessu næst Hárekur, eptir jalliun andadan, yfirrádin tekur.

41. Ad honum fögur lukka laut, lánga tíd margskonar, dóttur Framars Hildi hlaut, hann og mundin kvonar.

42. Hafdi stjórnan leingi lands, laung-um vakti hjaldur; Oblaudur hét arfi hans, en annar Víg-haraldur.

43. Brugðu þessir benja nað, birta fornu letur; á enda komin er við það, Andra sögu tetur.

---

44. Þetta fánýtt ljóða lag, léttvarð mér í kvæðum; af mér snúið er í brag, eptir blaða skræðum.

45. Artal set eg ekki neitt, allt er það í svíma; það var kveðið árið eitt, Íslands bygðar tíma.

46. Blandaði eg daufan boðnar skúr, bjóð fyrir marar lýsu; heilt mitt lesist heitið úr, hinni næstu vísu.

47. Sigli Drakon sóns frá strönd, suðra, neglu hagnar, óminnis upp leiti lönd, lendi á skeri þagnar.

48. Endíng ræðu bragar ber, byrjuð féll í Hólmi; sendíng gæða þróist þér, þjóð á svella bólmi.

---

# Leidréttíngar

## Skif- og Prent-feila.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Blſ. | 12 | lín. | 22 | úlfar les álfar. |
| — | 41 | — | 11 | bar l. bað. |
| — | 43 | — | 22 | gjæða l. gjæði. |
| — | 46 | — | 26 | linnar l. linna. |
| — | 48 | — | 12 | mend l. með. |
| — | 56 | — | 19 | branda l. landa. |
| — | 58 | — | 5 | heiti l. leiti. |
| — | 59 | — | 17 | dúkar þunnu l. dúkur þunni. |
| — | 71 | — | 27 | blífs l. bjóð. |
| — | 100 | — | 12 | hausi l. hausinn. |
| — | 101 | — | 3 | þó l. sjó. |
| — | — | — | 9 | sá eg þá, sára reiða l. sá og þá, sára reiðir. |
| — | 111 | — | 14 | hilmis l. hilmir. |
| — | 126 | — | 20 | ei l. er. |
| — | 140 | — | 11 | ummæler l. umbæter. |
| — | 142 | — | 22 | þar l. þá. |
| — | 151 | — | 16 | funda l. fundu. |

